# HELGI HINN MAGRI.

DRAMATISKAR SÝNINGAR

EÐA

**SÖGULEIKUR Í FJÓRUM ÞÁTTUM.**

EPTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON.

---

***Samið í minning þúsundára-afmælis Eyfirðinga 1890.***



**Reykjavík.**

**Aðal-umboðssala í Bókverzlun Sigf. Eymundssonar.**

**Prentsmiðja Sigf. Eymundssonar.**

**1890.**

# FORMÁLI.



Eg kalla leik þennan *dramatiskar sýningar* fyrir þá sök, að hann er ekkert fullmyndað sögu-*drama* eða listaverk. Það var bæði, að mér fannst efnið, landnám Helga magra í Landnámu, ef henni skyldi fylgja, ekki liggja laust fyrir til dramatiskrar meðferðar, og líka það, að mér hugsaðist ekki að byrja á tilraun þessari fyr en nú um miðjan vetur. Eg samdi og leikinn með því sérstaka markmiði, að hann yrði sýndur hér á Akureyri í sumar næstkom. Náist sá tilgangur, og þyki leikurinn boðlegur og ekki til muna koma í bága við þekking manna á landnámsöldinni, þá er markmiði mínu að miklu leyti náð.

Flestar persónurnar eru landnámsmenn, sem nefndir eru í Landnámu; einungis hefi eg bætt við (búið til) fylgdarmönnum Helga: *Erni* og *Teiti*, þrælum hans og berserkjum, svo og *Hervöru* og *Geira*. Hið frumlega í leiknum, svo sem bónorðin, viðreign Helga og Þóris þursasprengis o. fl., er, eins og menn munu finna, allt sett og samofið dæmum (mótívum) úr sögunum, en þær geyma þá gullnámu fyrir skáld og listamenn, sem frambýður efni í ótöluleg og margbreytt listaverk.

Hvað mál og ritháttt snertir, hefi eg haft það eins og mér þykir bezt fara: fornlegt, en þó öllum þorra manna auðskilið, en að vísu er það málfæri líkara íslenzku 13. en 9. aldar. Á vísum þeim, sem eru í leiknum, hefi eg haft rithátttinn nokkuru fyrnri en á hinu, t. d. *ek* og *ok*, o. s. frv.

Þar sem eg sýni í leiknum (eða tilfæri í kvæðinu til Helga) atburði, sem engar sögur geta um né sanna, verða þeir, sem hvorki vilja láta draga frá neinu né *bæta við* í sögum vorum, að halda mér til góða; heitir slíkt skáldaleyfi.

Höf.



## PERSÓNUR.

*Helgi hinn magri.*
*Þórunn hyrna*, kona hans.
*Ingjaldr*,
*Hrólfr*, — synir þeirra.
*Ingunn* kona *Hámundar*,
*Helga*,
*Þórhildr*,
*Hlíf*,
*Þóra*,
*Þorbjörg hólmasól*, — dætr þeirra.
*Hámundr heljarskinn.*
*Örn hinn gamli*,
*Teitr tréfótr*, — fylgdarmenn Helga.
*Skjálgr*,
*Vífill*, — þrælar hans.
*Sámr* og *Glámr*, berserkir hans.
*Auðólfr*,
*Þorgeirr*,
*Gunnarr*, — kaupmenn.
Kona *Ingjaldar.*
Kona *Hrólfs.*
*Þórir þursasprengir.*
*Hervör gípa*, móðir hans.

*Þormóðr rammi,*
*Ólafr bekkr.*
*Gnúpa-Bárðr,*
*Þórir snepill.*
*Hjálmun-Gautr.*
*Geiri skáld.*
Fylgdarmenn, griðkonur, ambáttir.

---

Fyrsti þáttr á að fara fram á knerri Helga magra. Annarr og þriðji þáttr á Oddeyri og í Þórunnar ey. Fjórði þáttr í Kristnesi. Milli þess er fram fer í 1. þætti og hinum þremr hugsast liðin nokkur ár.

# I. þáttr.

---

## 1. sýning.

**Knörr Helga magra í hafi. Stormr, stórsjór og myrkr. Það er beitt á bakborða og sést á hlið knerrinum en mjög dauft. Þilfar (lypting) er aptr á, en búlki fyrir framan siglu; siglutopprinn sést ekki. *Örn* stendr og stýrir, en *Teitr* og tveir menn aðrir sjást við dragreip á bakborða nærri siglu. Berserkirnir, *Sámr* og *Glámr*, halda sér fram á búlkanum og sjást óglöggt.**

*Örn* **(raular):**

**Barðist ek**
**með Böðmóði**
**sextán sumur**
**við Svíasker.**

*Teitr* **(herðir á reipinu):**

**Áttak leik**
**við úlfhéðna,**
**var hart höggvið**
**í Hafrsfirði.**

*Örn* **(sem fyr):**

**Önnur sextán**
**með Sölva klofa,**

þann vissak víking
vápndjarfastan.

*Teitr* (lítr til Arnar):

Þá hefik þekktan
Þóri haklang
harðvígastan
í höggorrustu.

*Sámr* (kallar): Boði mikill ferr að knerrinum!

*Örn* (stýrir nær vindi): Æðrast nú þeir úlfhéðnar?

*Teitr*: Þeim ferr líkt mönnum, er aldri sáu blóð, eða hví skulu þessi heljarskinn fylgja oss?

*Örn*: Hvort veiztu eigi, að Öndóttr kráka sendi þá húsbónda vorum að gjöf og vígði þá áðr Þór? Skulu þeir hafðir til stórræða (hlær).

*Teitr*: Veit eg það, og veit eg, að þeir eru allstyrkir menn, enn til sæfara eru þeir geitr og glópaldar (hlær).

*Örn*: Þó eru þeir fleiri á knerri þessum, er þykir útivist vor löng orðin, eða veiztu, Teitr, hvað haf það heitir, er nú siglum vér í?

*Teitr*: Eigi veit eg, félagi, en treysta vil eg enn um hríð Helga bónda, svo og Þór fulltrúa vorum.

*Glámr* (æpir): Boði ferr enn að oss, og er hvalr eða skrímsl með! Eg sé sporðinn iða í kvikunni! (Helgi magri kemr).

*Helgi:* Hálsi báruna! herði reipið!

(Báran kemr á kinnung skipsins).

*Sámr:* Skrímsl í bárunni! skrímsl í hverri báru!

*Helgi* (kallar): Hirðið eigi að hræðast, berserkir, enda er ykkr eigi að borgnara á búlkanum. Neytið nú aflsmunar og haldið fast!

(Hrólfr kemr).

*Hrólfr:* Skal svo lengi stefna, faðir?

*Helgi* (til Arnar): Beita skal sem fastast; álands mun vindrinn; hyggið og vel að ísum.

*Hrólfr:* Mál er úr hafi, meir en mál úr hafi.

*Helgi* (lítr til Hrólfs): Svo mun yðr konunum þykja.

*Hrólfr:* Hvort stefnir þú nú í Dumbshafið, faðir, eða á Tröllabotna?

*Helgi:* Eg stefni sem Þórr vill, fulltrúinn, eða mun það eigi ráð, þið félagar?

*Örn:* Má vera, bóndi, og njóti maðr augna sinna.

*Teitr:* Heyrt hefi eg að Þórr unni allmjög norðrinu.

*Hrólfr:* Og seint ætla eg, faðir, að hann muni benda oss til suðrsins.

*Helgi:* Því hefir Þórr heitið, að leyfa oss hvorki oflangt að fara eða ofskammt; eða skal nú til frétta ganga enn og heita á hvíta Krist?

*Örn:* Eigi mun enn saka, og bíðum dags, eða hvað lízt þér, Tréfótr?

*Teitr:* Því hét eg þá, Helgi, er þú dugðir mér óvígum og græddir fót minn, að aldri skylda eg æðrast í þinni för.

*Helgi:* Báðir munu þið vel gefast.

*Hrólfr:* Berum oss karlmannlega; brátt mun tröllakonungrinn bjóða oss til hallar og til vetrvistar.

*Sámr* (á búlkanum): Tröll hafi sæinn! Eg sé fugl fyrir knerrinum, og er sem eldr einn og ferlega mikill. Stýrum undan sem harðast!

*Örn* (raular):

Fugl er fyrir
ferlega mikill;
æðrast ambhöfðar;
illt er á sæ.

*Helgi:* Hvort munu fól þau sjá fylgju vora eða furðu sína? (Kallar): Brott af búlkanum! Þar ferr jaki mikill að oss! (Berserk-

irnir halda sér sem fastast. Skipið hallast). Hálsi skjótt báru þá, og hækki seglið! Jaki er fyrir stafni! (Hann bregðr sverði og gjörir Þórsmark móti bárunni). Dugi þú nú, Þórr!

*Glámr* (æpir): Þar fer miðgarðsormrinn að oss! (Báran brýtr á búlkanum og tekr út berserkina. Óp mikið heyrist á stjórborða).

*Örn*: Allvel tókst, og betr en á horfðist, og vel dugði enn fulltrúinn, Helgi.

*Helgi*: En brott eru nú berserkir mínir. — Þar ferr jakinn og liggja selir á. Hyggjum sem bezt að ísinum, og er hann hið versta forað. (Hámundr kemr).

*Hámundr*: Sú var hörð, mágr, eða hvar eru nú berserkir þínir?

*Helgi*: Heimt hefir nú Ægir skatt af oss og tekið báða.

*Hámundr*: Býsna skal til batnaðar; enda er skaðinn eigi mikill. Þú ert maðr siðaðr og vitr, en þeir vóru allheimskir menn og ódælir, skulum vér þá og eigi lengi gráta.

*Helgi*: Mínir menn vóru þeir þó; en nú verðr svo búið að hafa; hlýtr hverr að sjá fyrir sínu lífi. En betra hefði verið að senda þá beina leið til átthaga sinna.

*Teitr*: Í áttina mun þá reka; eða skal eg vísu kveða og minnast úlfhéðna vorra?

*Helgi:* Gjör það, skáld, en vér munum að öðru hyggja, eða hvort sýnist yðr nú sem mér, að sæ og veðri sloti?

*Hámundr:* Sýnt er að hvorttveggja slotar.

*Helgi:* Þá skal stýra sem næst vindi. Munum vér nú komnir alllangt norðr um landið, og má vera að það sé oss eigi allfjarri, en þá er þrennt að varast: álandsvind, ísrek og strauma.

*Örn:* Hvort skal eigi kanna dýpi?

*Helgi:* Eigi er land allnærri, hafsær er enn, enda vil eg eigi gangsins missa, og ferr nú vel.

*Teitr* (kveðr):

Hvetr oss, meðan hvessir
Hræsvelgr of lög, Helgi,
enn norðar baugnirði,
niðfellir dólg-mellu.
Rönd brast, en rá lesti,
rammúfin þás dúfa
(gein ylgja blábólgin)
berserki svalg sterka.

*Helgi:* Vel er kveðið, og þigg fyrir baug þenna. (Dregr fingrgull af hendi sér og fær honum).

*Teitr:* Gef manna heilastr, bóndi, og launi Freyr þér með landi feitu!

*Hámundr:* Hve lengi hyggr þú, mágr, þann veg að stýra? Flestum þykir nú mál úr hafi, er svo er áliðið sumars.

*Helgi:* Eigi veit eg víst, mágr, enda varnar Þórr oss enn suðrsins. Vil eg nú aptr ganga til frétta.

*Hámundr:* Það ætla eg eigi vitrlegt, að gjöra ráð sitt eptir blótum og fréttum, og eigi trúi eg á Þór og á fá goð önnur; mynda eg helzt heita vilja á Krist Máríuson, hinn hvíta og hinn góða. Er það nú mikill siðr herkonunga þeirra, er dvalið hafa á vestrlöndum, að trúa á goð kristinna manna, en hafna blótum.

*Helgi:* Engi varnar þér þess að trúa á þau goð, er þér eru helzt að skapi.

*Hámundr:* Eigi vil eg berlega hafna goðum Geirmundar konungs bróður míns og allra Hálfsrekka; þykir mér og hinn nýi siðr allóhermannlegr og veikr, en eigi skortir kristna menn íþróttir og undrabrögð mörg, svo og siðu fagra, eða svo þykir Ingunni dóttur þinni.

*Helgi:* Gjörið sem eg, trúið á Krist til allra friðsamlegra hluta og góðra.

*Hámundr:* En á Þór til harðræða?

*Helgi:* Svo skyldir þú og gjöra; mun þá allvel farnast.

*Hámundr:* Undarlega ferr þér, jafnvitr maðr, sem þú ert, er þú hyggr svo sundrleit.goð muni duga þér, eða hvort ætlar þú Krist og Þór jafnmáttka guði vera eða jafngóða?

*Helgi:* Báða hygg eg máttka vera, en miklu betra goð ætla eg þó að Kristr sé, enda eru þeir svo óskyldir sín í millum, að þeim má með engu móti saman blanda.

*Hámundr:* En það er þó beint hið sama, sem þú gjörir, er þú trúir á báða.

*Helgi:* Það gengr mér til, að bannað er að heita á Krist til hernaðar og stórræða, enda vísaði mér Þórr, en Kristr eigi, til Íslands; er og Þór, sem þú veizt, einkum helgað landið, og mun hann þar miklu ráða — eða hvergi neinu ella.

*Hámundr:* Hversu mega mörg goðin vera og þó gagnstæðileg? Ætla eg sem kristnir menn, að einn sé guðinn, eða engi goð ella.

*Helgi* (hugsandi): Veit eg það, og því trúi eg, en þó ætla eg, að ýmsir sé til goðlegir kraptar, góðir og illir, og ráði þeir miklu, enda kalla eg eigi Óðin og Þór illa, þótt eg kalli Krist góðan.

*Hámundr:* Óljóst er oss allt um goðin, enda er sú trúan næst mínu skapi, að trúa á mátt minn og megin.

*Helgi:* Gjarnan vil eg á einn guð trúa, þá er við höfum friðlandi náð, en allilla samir kristin trúa víkingum og sækonungum, enda er erfitt að skipta um fornan átrúnað. En nú hvessir, mágr, og athugum sem bezt leið vora.

*Örn:* Hvort mun glæta sú vera dagroði?

*Helgi* (lítr á): Dagroði víst, enda skal svo stefna.

*Hámundr:* Dreymdi mig áðan; mér þótti Geirmundr bróðir minn koma að mér og mæla svo: „Statt upp, frændi, og hefi eg numið þér bygð, og heitir á Hóli“.

*Helgi:* Betra er þetta dreymt en ódreymt; en nú mun eg leita fulltrúa míns; eigi mun lengi svo búið duga mega. Bíð mín, mágr, og stýrið þér beint eptir bjarma þessum (bendir). Þú Hrólfr, ert maðr nákvæmr og vel skygn; hygg vel að straumum og eigi síðr að jökum. Skal hver sá, er fyrstr sér land, eiga bón að mér, menjagrip eða annað, en frelsi ef man er. (Fer).

*Hrólfr:* Bragð er nú að, nú fýsir föður vorn sjálfan úr hafi. En þess strengi eg heit, að þar skal eg bústað kjósa, er hvergi sér

til sævar. Því heiti eg öðru, að þar skal eg hof reisa á bæ mínum og helga Þór og Frey, því að eigi em eg blandinn í trúnni.

## 2. sýning.

Undir þiljum. Þrjár lokrekkjur hvoru megin. Fremst á miðju sviðinu er borð eða stalli og þar á líkneski nokkur. Óveðrið geysar sem hæst og heyrast högg og dynkir. (*Þórunn hyrna* kemr fram úr næstu lokhvílu til hægri. Hún hefir sveipað um sig dökkum silkimöttli. Hún heldr sér í stallann).

*Þórunn:* Miskunna þú oss, Kristr Máríuson! Kaldar eru feiknir þessar! (hana grípa hryllingar). Norðar — segja þeir — norðar, norðar, norðar — í ógnarheima þessa! Hvar skal staðar nema? Hvar mun líkn að fá og landtöku? Heitið hefi eg að mæla eigi æðruorð, en nú em eg nær úrvinda. Og þó angrar mig eitt meir en allar ógnir aðrar: allir bregðast mínum fulltrúa, allir, bóndi minn og börn, allir, allir! Hörð eru örlög vor. Hví hlutu börn mín að alast upp með heiðnum mönnum alla hina miklu styrjaldartíð? — Hvar er friðlandið — friðlandið? Hve nær lýkr því heljar-hafi, er æ verðr kaldara? (titrar). — Kristr! Kristr! Þyrm oss, styrk oss, því vér förumst! Allt er kuldi, hel, hel!

Allt er heiðni, heiðni, heiðni! Jesús, Jesús, lát mig eigi blóðinu gráta! (Hún kastar sér niðr fram á stallann, byrgir augun og biðr litla stund. Stendr upp rólegri). Góðr guð ertu! Nú er mér aptur rótt. Lífsvon lýsir um skipið. Nú léttir og veðrinu. Lofaðr sé guð!

(Hún fer inn í lokhvíluna. *Helgi* kemr og gengr að stallanum).

*Helgi:* Kærri ertu mér, Kristr, en Þórr, en eigi má þín freista, og ætla eg víst, að þessi för sé farin í þínu óleyfi. En ef þú ert óvinr Þórs og þó styrkvari, hversu mun þá vegna? — Reikult er vort vit og veikr er vor máttr. Reiðstu mér eigi, Kristr! Reiðstu mér eigi, Þórr! — Úr hafi vil eg; bráðr bani við ríss, bani vor allra. — Kristr! Þórr! Þórr! Kristr! já, Kristr! (Krýpr við stallann og þylr litla stund; stendr upp.) Nei, Þórr! Þórr! forni félagi, svara mér! Sértu illr, muntu mig svíkja; sértu góðr og máttkr, svara mér þá! (Tekr tvo hluti). Nú skal enn hlutum kasta. Svara mér enn eitt sinn, og mun eg þér hof reisa, eða viltu gull hafa? Þigg hringinn góða, og svara nú þegar!

(Kastar öðrum hlutnum).

Skal norðar halda? (Tekr upp hlutinn) Norðar! (Kastar hinum og hyggr að) Suðr! (Kastar báðum og hyggr að).

Suðr! Norðr!

Hvað er nú, Þórr? Ertu mér reiðr?

(Fellr fram við stallann).

Svara mér, Þórr! Nú skelf eg, Þórr! Nú skelf eg. Þórr! Þórr! Kristr! Kristr!

(Dimm rödd kemr sem neðan frá):

Norðar enn, norðar enn!

(Önnur mildari rödd heyrist sem uppi yfir):

Með sól, með sól!

*Helgi* (sprettr upp í riðið og kallar): Stýra skal með sól, með sól!

(*Þórunn* kemr fram í lokhvíludyrnar; *Helgi* kemr aptr og gengr að stallanum, en sér eigi Þórunni).

*Helgi*: Þökk sé goðum vorum, en hverju eða hverjum tveggja, Þór eða Kristi? Þökk, hvíti Kristr! Þökk, Þórr!

*Þórunn*: Eigi þetta nafn, Helgi, eða hvað hefstu að? og hvílík nótt er þetta?

*Helgi* (glaðlegr, tekr báðar hendr hennar): Nú skal með sól stýra, og eru guðirnir oss áварðir mjög, eða heyrðir þú raddir nokkurar?

*Þórunn*: Hvað segir þú?

*Helgi*: Eg gekk til frétta, og fékk eg ekki svar fyrst lengi, en loks heyrðist mér sagt vera: „Norðar enn“, og jafnskjótt heyri eg aðra fegri rödd og mildari, er segir: „Með sól, með sól!“

*Þórunn* (alvarleg): Þar hefir Þórr svikið þig, en Kristr borgið þér og oss öllum.

*Helgi:* Vel dugði Þórr oss í nótt.

*Þórunn:* Illa dugði hann, eða týndust eigi berserkir þínir?

*Helgi:* Týndir eru þeir, en öllu öðru er borgið.

*Þórunn:* En hyggr þú, að hin fegri röddin hafi verið rödd Þórs?

*Helgi:* Eigi veit eg gjörla, eða hvað hyggr þú?

*Þórunn* (innileg): Heyr mig nú, Helgi. Eg ætla víst, að Kristr hafi þar svarað þér en eigi Þórr, enda veit eg nú að Kristr hjálpar oss. En hví gekktu enn til frétta við hinn þrúðga og grimma guð, er þú hafðir mér því heitið að gjöra það eigi optar?

*Helgi:* Því hafða eg heitið, þá er eg hefða séð Ísland, en það hefi eg eigi enn séð. En heyr mig, ver enn vonglöð, hálf dáð mín og hugr hefir jafnan hjá þér verið.

*Þórunn:* Vonglöð er eg, er þú trúir á Krist, enda stefnum vér nú með sól og að Krists tilvísan. En nótt þessi gleymi eg aldri.

*Helgi:* Gakk nú aptur til hvílu; brátt munum vér landið sjá.

*Þórunn* (leggr hönd um háls Helga): Seg þá skilið við Þór!

*Helgi* (þegir fyrst, svo með áreynslu): Svo mun eg nú gjöra verða.

(Kyssir hana; hún fer inn í lokhvíluna, en hann upp á þiljur. Hrólfr kemr niðr).

*Hrólfr:* Óðum birtir nú, en hvergi land, og ljótt og leitt er haf þetta. (Kallar:) Ingjaldr frændi! og þú Auðun, fær þú mér mjöð nokkurn! (*Ingjaldr* og *Auðun* koma sinn út úr hverri lokrekkju og ber Auðun drykkjarker og fær Hrólfi, sem drekkr).

*Ingjaldr:* Hörð nótt og volk mikið, eða þótti yðr eigi svo?

*Hrólfr:* Svo þótti oss, eða máttu þið sofa?

*Ingjaldr:* Svo er víst, og aldri svaf eg betr. Þó veit eg að berserkir vorir urðu eigi sjálfdauðir á Íslandi, eða hversu bárust þeir af áðr?

*Hrólfr:* Allvesællega, kváðu skrímsl vera í hverri báru, og sjálfan miðgarðsorminn sitja um skipið, svo og fugl mikinn fara fyrir oss.

*Ingjaldr:* Allheimskir menn vóru þeir, og má þó vera að á nokkuð viti, enda ætla eg að landið sé nærri. Hvernig stýrið þér?

*Hrólfr:* Nú stýrum vér eptir sól, enda bannar oss nú Þórr norðrið.

*Ingjaldr:* Vel er þá, en hversu mega konurnar?

*Hrólfr:* Lítt eða ekki hefir heyrzt til þeirra og mun á gott vita, því eigi hefir nótt sú verið aldæla.

*Ingjaldr:* Eigi má oss allt kynja, er vér komumst þó lífs af úr hinum mikla styr, og lítið friðkaup ætla eg berserki þessa. En seg mér, hafið þér gjört heit nokkurt í nótt?

*Hrólfr:* Því hét eg, að reisa hof á bæ mínum og gjöra bæinn þar er hvergi sér til sævar.

*Ingjaldr:* Líkari ertu Hrólfi forföður þínum hinum sænska, en Katli flatnef móðurföður vorum.

*Hrólfr:* Vel má það, því að svo stórt sem kyn vort er hið norræna, er hitt allt stærst, sem komið er af Ragnari loðbrók, Skjöldungum og Ynglingum. Eða hvað segir þú, Auðun rotinn?

*Auðun:* Eigi hefi eg til frétta gengið og engu heitið, en gjarna vildi eg fyrstr landið sjá, og fyr en þú, Hrólfr.

*Hrólfr:* Hvaðan kemr Færeyinginum metnaðr? En satt er það, sonr ertu smjör-

mannsins Þórólfs, þess er fann Ísland með Flóka. Mun hann hafa geymt þér smjörið, er hann vitjar þess eigi sjálfr.

*Auðun*: Fullgóð er ætt mín, Hrólfr, og engi var ættfeðra þinna hinna ríku blótaðr dauðr eins og Grímr var kamban, langafi minn.

*Hrólfr*: Veit eg að Færeyingar hétu á Grím, og eru þeir allheimskir síðan, enda nefnir þú eigi ambáttarkynið.

*Auðun* (með svip): Hernumin var móðir mín, en eigi ambátt.

*Ingjaldr*: Eigum gott í búsifjum við Auðun, fyrir því að hann er góðr drengr, og víst mun bú hans vel smjörvað verða; hafa þeir frændr hans mikilmenni verið, fésælir og þó friðsamir. Er og aldri víst, hverra niðjar bera hæstan hlut í skauti.

*Auðun*: Aldri skal eg ýfast við ykkr bræðr, ef þið ýfið eigi mig, enda má eg mín nú lítils, er eg hefi bæði frændr misst og fé.

*Hrólfr*: Vin áttu Auðun, þó eigi beri brynju, enda em eg og engi óvin þinn.

*Auðun*: Vel er þá, Hrólfr.

*Ingjaldr*: Komum upp, og vil eg nú sjá til veðrs. (Ingjaldr og Hrólfr fara upp).

*Auðun*: Vitr maðr og réttsýnn er Ingjaldr sem faðir hans, en Hrólfr er miðlungi góðgjarn. En nú munda eg kjósa að ná fundi Helgu.

(*Helga* kemr fram úr hvílugólfi gegnt Þórunnar. Hún hefir sveipað um sig grænum möttli og hefir slegið hár).

*Auðun* (horfir á Helgu): Fögr er Helga!

(Helga bendir, og gengr Auðun nær; þau tala lágt).

*Helga*: Allófriðsöm nótt, Auðun?

*Auðun*: Ófriðsöm mjög, eða máttir þú sofa?

*Helga*: Svaf eg fyrst, og eigi draumlaust, eða kanntu draum að ráða?

*Auðun*: Lát mig heyra, ef þú vilt.

*Helga*: Eg þóttist komin vera í dal einn fagran og mikinn, og sé þar bæ einn allfríðan og þóttist eiga. En er eg vilda inn fara í húsin, sá eg lið mikið ríða heim að hlaðinu, og sýndist mér herr manns vera. Merki tvö vóru borin fyrir fylkingunni, og þótti mér annað vera merki Þorsteins rauðs, en hitt langafa míns, Kjarvals Írakonungs. Eg sá og mann mikinn og garplegan fylgja hinu norræna merkinu, og þóttist eg spyrja: Hverr fylgir nú merki Þorsteins rauðs? Þá svaraði sá er eg spurða: Grímr kamban,

segir hann. Þá þótti mér blásinn vera herblástr svo mikill að mér óaði við, en sé þá sjálfa mig í broddi hersins, og var eg valkyrja og sat á hvítum hesti, en á aðra hönd mína sat maðr á rauðum hesti og þótti mér all-fríðr sýnum, enda þekkta eg hann dável.

*Auðun*: Mikill draumr og furðulegr!

*Helga*: Aptr spurða eg, hverr herr sá væri, og var svarað af hinum sama manni og fyr: *Þar sér þú, Helga, kyn þitt, og er nú þúsund.* Þá vaknaða eg, og var mér höfugt orðið.

*Auðun* (hugsandi): Draumr sá mun þýða eiga kynsæld, og mun ná langt fram, eða hverr var hinn fríði maðr, er á rauða hestinum sat?

*Helga*: Eigi fær þú það að vita að sinni og engi maðr. En líklega ræðr þú drauminn. Þó var lið þetta miklu fleira en þúsund, því að aldri sá eg jafnmikinn herr í einum stað; það var og mjög breytilega búið og konur jafnmargar eða fleiri en karlar.

*Auðun*: Þar sem nefnd var þúsund, þá ætla eg það tákni tíma en eigi menn. — En, seg mér, Helga — (verðr orðfall).

*Helga*: Far nú, Auðun, og sjá þú fyrstr

landið, eða heyrðir þú eigi orð föður míns? Eg heyrða þau gjörla.

*Auðun*: Heyrða eg þau, en eigi er víst hvort goðin unni mér þess, enda er jafnóvíst, hvort faðir þinn veitir mér bæn mína; má og vera að hann sé þar eigi einn um ráðin.

*Helga*: Goðin hafa gefið þér hvöss augu, og muntu fyrstr sjá landið, hversu sem síðar ferr, en gott mun eg til leggja.

*Auðun* (þrífr hönd hennar): Allar dísir unni þér, Helga hin fagra! (fer).

*Helga* (eptir litla þögn): Auðun var sá, er á hestinum sat.

(Fer inn í lokhvíluna).

*Helgi* (kallar á þiljum uppi): Hald þér fast í siglutoppinn, Auðun, og ertu hinn vaskasti!

(Kall gengr um allt skipið).

Land í suðri! Land! Land!

*Helgi* (sem fyr): Kunni það maðr manni að segja, að Helgi hinn magri sá Ísland!

(Gleðióp um allt skipið. Fólk kemr fram úr lokrekkjunum. *Helgi* og *Þórunn* mætast, og fleygir hún sér í faðm Helga).

*Þórunn*: Helgi! Helgi!

*Helgi*: Þórunn!

## 3. sýning.

Knörrinn, sem í 1. sýning, sést stefna inn á Eyjafjörð fyrir hægum útnyrðingi, og sér á hlið honum. Sjór er sléttr, fjöllin sýnast smátærast fyrir og útsýnið breytast meðan sýningin varir unz lent er. Þá sést Hrísey á bakborða knerrinum, en há hlíð fyrir stafni (eða skógr) og slétt hlein þar sem á land er stigið. (*Örn* stendr við stýrið, en *Teitr* við siglu; fram á sjást ýmsir menn og konur. Hyggja allir að landinu, benda og talast við lágt).

*Örn*: Hátt land og hermannlegt!

*Teitr*: Hvítt land og karlmannlegt, og mun eg hér beinin bera!

(*Helgi*, *Þórunn* og börn þeirra öll (nema Þorbjörg), *Hámundr*, *Auðun* og konur þeirra *Hrólfs* og *Ingjaldar*, koma upp á þilfarið; þau eru öll í skartklæðum, eða á þessa leið búin: Helgi er í rauðum kyrtli með bláa skikkju á herðum. Hann hefir gylltan hjálm og er gyrtr gullbúnu sverði. Hámundr ber og líkan skrautbúnað, en hvorki þeir eða aðrir eru í brynjum né hafa skjöld. Synir Helga og Auðun eru í rauðum eða grænum kyrtlum, gyrtir sverðum og með gullhlöð um höfuð. Skikkjur þeirra eru styttri. Allir hafa þeir gyllta linda. Konurnar bera falda og hinar ógiptu lægri en þær giptu. Þórunn og Ingunn eru bezt búnar.

*Helgi* (þegar hann kemr): Hyggið vel að skerjum!

*Þórunn* (þegar hún kemr): Patrikus helgi! Fagr er fjörðr sá!

*Ingunn* (þegar hún sér landið): Sælar erum vér þess, að líta land eptir langt volk. Þökk sé þér guð og hvíti Kristr!

*Þórunn*: Gjör krossmark, Helgi, fyrir firði þessum. Hér bíða nú forlög vor allra!

*Helgi* (gengr í framstafn og bregðr sverði): In nomine Patris et Filii et Spiritus sancti (gjörir krossmark með sverðinu við nafn hverrar persónu).

*Þórunn*: Krjúpum allar fram og þyljum Pater noster! (Þær gjöra svo, og allir hlýða til).

*Hámundr* (gengr að stýrinu og bregðr sverði): Í nafni Áss hins almáttka signi eg hérað þetta! Heilsum vér og öllum landvættum og biðjum þær vera hollar en eigi gramar knerri vorum og öllu voru liði!

*Hrólfr*: Hér er fugl margr og selr mikill við hina eystri ströndina.

*Helgi*: Gef þú ströndinni nafn.

*Hrólfr*: Þá skal hún *Látraströnd* heita.

*Ingjaldr*: Þar dregr þræll vor, Skjálgr, fisk úr sæ, og er upsi. Vil eg að hin vestri ströndin dragi nafn þar af og heiti *Upsaströnd*, eða hvort má það eigi, faðir?

*Helgi*: Svo má og vel vera, og mun ólíku hægara að gefa löndum nöfn en að finna þau.

*Hámundr*: Dalr mikill opnast þar, og sýnist sem heilt hérað muni vera.

*Helgi* (lítr til): Það mun vera kostugt land, en snæsamt um vetr. En eigi skulum vér dal þeim nafn gefa að sinni; komi ríkmenni eptir oss, mun honum þangað verða vísað; mun hann þá sjálfr vilja gefa landi sínu nafn.

*Hrólfr*: Nes all-hátt er fyrir stafni, og er allt hrísi vaxið.

*Helgi* (lítr eptir): Ey mun vera en eigi nes, eða hvað skal heita, Þórunn?

*Þórunn*: Köllum hana *Hrísey*, og mæli eg um að happasæl verði.

*Hámundr*: Höfði er hins vegar og hlíðardældir allfagrar. Gef nafn, Ingunn!

*Ingunn*: Það skal *Höfðahverfi* heita, og mun verða góð bygð og kostug.

*Helgi*: Felli menn seglið, og skal kanna dýpi! Skal hér nú land taka sem horfir.

(Þeir *Teitr* fella, en *Hrólfr* rennir færi. Þjónustumenn bera upp bekki, bjórbyttur og horn. Þau Helgi setjast, karlar á bakborða en konur á móti. Síðan er Helga og Hámundi borin horn, sömuleiðis Þórunni og Ingunni. Síðan drekkr hver öðrum til meðan samtalið varir).

*Hrólfr* (meðan sett eru borðin): Gnógt er dýpi og sandbotn; landtaka góð.

*Helgi*: Varpi akkeri, beri festar á land og skjóti bryggju. Þið Örn og Teitr, skipið fyrir, en drekkið þó með oss, og allir menn og konur, sem vilja. Viljum vér drekka minni, fyrst guðanna, en þá fjarlægra vina, síðan segja fyrir griðum, en þá á land ganga og land nema (tekr við horninu og signir í kross). Vér drekkum full guðanna!

*Hrólfr*: Hví skal eigi Óðins full fyrst drekka, en þá Þórs, og heiðinn formáli þulinn?

*Helgi*: Drekki hver það full, er sjálfum líkar, enda er nú eigi tóm til langrar samdrykkju.

*Hámundr*: Látum höfðingja vorn ráða; mun ykkr sonum hans það vel hlýða, er eg gjöri það, en eg hefi engum manni fyr þjónað og mun svo jafnan verða.

*Örn*: Land er tekið og bryggju upp skotið.

*Helgi* (stendr upp): Kunnugt er þér, Hámundr, sonr Hjörs konungs, svo og öllu liði mínu, að fyrir tveim mánuðum síðan kvöddum vér vini vora í Suðreyjum; kunnug eru og öllum yðr þau stórtíðindi, er gjörzt hafa á Vestrlöndum eptir fall Þorsteins rauðs og föður míns; hafið þér sjálfir með mér verið

og þekkið styrjöld þá hina miklu, er svipti oss ríki og loks meinaði oss landvist á Írlandi. Vitið þér og hitt, að engi vorra frænda mun vitja vilja fornra óðala austr í Noregi meðan ríki Haraldar lúfu stendr. Nú hefir betr tekizt, en áhorfðist, er goðin hafa leitt oss til lands þessa; gengu af því miklar sögur, enda gefst oss nú sjálfum á að líta. Em eg feginn orðinn landtöku og lízt mér landið allt frítt og byggilegt, en nú er mjög áliðið sumars, og megum vér svo við búast; er líf allra vor í veði ef eigi höldum vér kvikfé voru; skulu húskarlar vorir og mansmenn þegar byrja að afla heyfanga, og mun eg þeim bezt launa, er bezt dugir; vænti eg og góðrar þjónustu af yðr öllum. En vér hinir með konum vorum munum starfa að skipi og skálasmíð; mun hverr starfa það er kann og eigi að metorðum verða farið. Skal eg og yðr kunnugt gjöra, að engi skal mig framar konung kalla eða herra, en ráð og forsjá vil eg hafa fyrir öllu mínu liði og öllu landnámi, en næst mér Þórunn húsfreyja og Hámundr mágr vor, sem konungborinn er og konungsnafn hefir borið.

*Hámundr*: Konungsnafn á Geirmundr bróðir minn, en eigi eg með réttu, enda

banna eg sem Helgi öllum mönnum að gefa mér tignarnafn á þessu nýja landi; bóndi vil eg heita, en sjálfráði vil eg vera.

*Helgi*: Nú munum vér sjálfir oss velkomna bjóða; komum vér hér að landi þessu, þar sem engi maðr hefir áðr fæti á stigið; er því eigi við aðra menn að metast og oss allt sjálfboðið; er það og kostr, sem nálega bætir oss að fullu allt það, er vér höfum látið. En þótt hér sé eigi menn að óttast, býð eg hinn mesta varnað á, að allir menn fari varlega, meðan land er óþekkt með öllu; banna eg konum einum frá skála að ganga, svo og nokkurum manni vopnlausum að vera. En verði nokkurr var við björnu eða önnur skæð dýr, kvikindi eða forað, þá segi hann oss þegar. Það annað býð eg varnað á, að allir menn sé í sátt og friði sín í millum, en deilur allar, sem verða kunna, munum vér semja eða með lögum dæma. En til tryggingar friði og fullu samþykki skulu forn griðamál sett og fram sögð. Þú, Auðun, munt vera allvel máli farinn. Seg oss fyrir griðum að norrænum sið. (Sezt).

(*Auðun* stendr upp og mælir hátt og snjallt en allir hlýða).

*Auðun*: Það er upphaf griðamála vorra,

að öll goð sé oss holl og vér við þau í fullum sáttum. Nú skulu vér og vera vor í millum sáttir og samværir, að öldri og að áti, á þingi og á þjóðstefnu, að hofsókn og að húsi konungs, svo og hvarvetna þar er maðr manni mætir. Skulu vér deila kníf og kjötstykki og alla hluti vor í millum sem frændr en féndr eigi. En ef sakar gjörast, skal þær fé bæta, en eigi flein rjóða. En hverr sá, er gengr á gjörvar sættir eða vegr á veittar tryggðir, þá skal hann svo víða vargr, rækr og rekinn, sem menn víðast varga reka, heiðnir menn hof blóta, eldr brennr, jörð grær, mögr móður kallar, skip skríðr, skildir blika, sól skín, snæ leggr, Finnr skríðr, fura vex, valr flýgr vorlangan dag og standi honum beinn byrr und báða vængi, himinn hverfr, heimr er byggðr, vindr þýtr, vötn falla, karlar korni sá; hann skal firrast hof og heiðna menn, goða hús og guma, heim hvern, nema Hel gista. Tekr hverr vor tryggðir við annan fyrir sig og sína arfa, alda og óborna, nefnda og ónefnda, en hverr veitir í móti aldar tryggðir og ævintryggðir, mætar tryggðir og megintryggðir, er æ skulu haldast meðan mold grær og menn lifa. Erum vér nú allir sáttir og sam-

mála hvargi er hittumst á landi eða legi, skipi eða skíði, í hafi eða á hestsbaki, árar að miðla og austskotu, þóptu og þilju, ef þörf gjörist, jafn sáttir hver við annað sem faðir við son eða sonr við föður. Höfum nú lófatök að tryggðum vorum að vilja Baldrs og vitni goða og allra þeirra er á heyrðu. Hafi sá goðahylli, er heldr tryggðir, en sá goðagremi, sem rýfr. Höfum heilir saman setið, og sé goðin sátt oss öllum!

(Allir standa upp, og þeir sem næstir sitja, takast í hendr).

*Þórunn*: Kalli menn ambáttir vorar!

(Sex ambáttir koma aptr að siglu; þær eru í dökkvum kyrtlum síðum og með dúka um höfuð).

Áðr en eg stíg fæti á land þetta, gjöri eg heyrinkunnugt, að eg með samþykki Helga bónda míns gef yðr öllum frelsi; megið þér upp héðan þeim þjóna, er þér sjálfar kjósið; eruð þér griðkonur héðan að lögum og réttindum sem frjálsbornar væruð.

(Ambáttirnar beygja kné, hrína eða gráta, eða rétta hendr sem vilji faðma Þórunni).

*1. ambátt*: Öll regin sé þér holl, Þórunn húsfreyja, og munu vér þér ávallt þjóna meðan vér megum og þó að betr, er vér erum frjálsar.

*Ýmsir skipverjar* (hrópa): Lifi Þórunn húsfreyja! Lifi Helgi bóndi!

*Helgi*: Sórstu þig enn í Flatnefsættina, Þórunn. Skal svo vera sem húsfreyja vill. En yðr sé kunnugt, að engum mansmanna minna gef eg frelsi að sinni, en síðar mun eg fara að dæmi konu minnar og gefa þeim frelsi, er mér sýnist, enda gef eg engum nema nokkuð vinni til sjálfr, og sjái eg að sá kann hóf til að vera með frjálsum mönnum. Mun eg hverjum þræla minna fá gerði í hendr, er hann sjálfr má rækta og kaupa sér frelsi fyrir, ef hann vill og hefir mannrænu til. En þeim þræli, er sanna hersögu ber fyrstr, happ vinnr eða eitthvað það, er launavert þykir, þá skal hann jafnskjótt frelsi sitt að mér eiga. En þú, Auðun, því hét eg í nótt, að hverr sá, er fyrstr kæmi auga á land þetta, þá skyldi og sá fyrstr eiga bón sína að mér. Nú sýndir þú hvatleik þinn, er þú kleifst siglutréð í storminum, enda sást fyrstr landið. Kjós nú menjagrip úr eigu vorri.

(Helga lítr í skaut sér, en Auðun þegir).

Þú ert maðr ungr og óframr, og mun eg kjósa fyrir þig (ætlar að draga hring af hendi).

*Auðun:* Haf þökk, bóndi, en eg mun síð-

ar kjósa. Mun þér og sjálfum þykja sem eg muni þurfa meiri frama að fá áðr en eg nefni dýrgrip þann, er eg helzt,—er eg einan mun kjósa mér til handa.

(Helgi og Helga brosa).

*Helgi:* Svo skal vera, Auðun, og segir þú satt, en nokkur laun vil eg að þú nú þegar hafir, og skaltu upp héðan talinn næstr þeim sonum mínum. — En hvað er nú, Hámundr mágr, hversu lízt þér strönd sú, er vér erum að komnir?

*Hámundr:* All-byggileg mun vera og sjáum vér þó síðan betr.

*Helgi:* Á fellr hér, en skógr þéttr alla vega inn. Vil eg nú þegar að þú eigir strönd þessa frá á þessi og svo langt í suður, sem síðar greinir. Vil eg hér hafa vetrsetu, en að þú ráðir búi; ertu umsýslumaðr mikill, en eg mun hafa ærinn starfa, er eigi má fresta, en það er að kanna hérað þetta.

*Hámundr:* Vel lízt mér þetta ráð, og kann eg þér þökk og aufúsu; vænti eg að vel farnist með forsjá þinni og framkvæmd vor allra; en hvern veg viltu helga þér landnám þitt?

*Helgi:* Elda mun eg kynda við ós hvern og ármynni alla leið milli andnesja hinna

yztu þessa fjarðar. En fyrst munum vér reisa viðu þá, er vér höfum út haft til skálagjörðar.

*Hámundr:* Vel er það. Muntu nú fyrstr á land ganga með konu þinni, en síðan við kona mín. Muntu hafa formála við er þú stígr fyrst fæti á ónumið land og nemr sjálfum þér og örfum þínum til eignar, og er það konunglegt starf.

*Helgi:* Svo mun eg nú gjöra; tak hönd mína, Þórunn!

(Þau Helgi ganga af skipinu og nema staðar á hleininni. Helgi tekr ofan hjálm sinn með vinstri hendi, en bregðr sverði með hægri og höggr eptir höfuðáttum).

*Helgi:*

Lýsik landhelgi;
land er numið,
eyði-hérað
í úthöfum!
Lýsik löglýsing,
heyri landvættir!
nemk hér byggðir
í nafni Krists!

Vilk eiga land
sem vötn um deila
í frá andnesjum

til óbyggða.
Nemk fjörð allan
með eyjum, ströndum,
hlíðum ok dölum
til há-jökla!

Býð ek þér nafn,
hinn bjarti fjörðr,
*Eyjafjörð*
ek þik kalla.
Verndi þik guð
meðan vápni fylgir
oddr ok egg
ok aldir lifa!
(Setr upp hjálminn)

*Þórunn*:
Kveðr það Þórunn
Ketilsdóttir:
Lofaðr sé sá
sem löndin skapar!
Blessa þú, alfaðir,
byggðir þessar
sigri ok sæmd
ok sólarljósi!
(Hámundr og Ingunn ganga á land).

*Hámundr* (bregðr sverði):
Lönd hefik látit
ok ljósa aura,

hallast Hálfsrekkar,
herjum kunnir,
Nemr nú Hámundr
Hjörvi borinn
óðul ný
á Árskógarströnd.

(Þeir Ingjaldr, Hrólfr og Auðun standa eptir á drekanum og snúa við áhorfendum).

*Auðun* (hátt): Nefni eg í það vætti alda og óborna, að Helgi Eyvindarson nam Eyjafjörð!

*Hrólfr*: Minnist menn þess í þúsund ár, að með honum numu land synir hans Hrólfr og Ingjaldr og mágr vor Hámundr, sonr Hjörs konungs!

*Ingjaldr*: Minnist menn þess jafnlengi, að við hlið Helga hins magra stóð húsfreyja hans, Þórunn hyrna Ketilsdóttir flatnefs og með henni dætr þeirra: Ingunn, Helga, Þórhildr, Hlíf og Þóra!

Lifi Eyjafjörðr! Hann lifi!

(Allir taka undir).

---

# 2. þáttr.

---

## 1. sýning.

**Búð á Oddeyri; dyr með hurðum fyrir sínar hvorum megin; tjöld eða reflar hylja alla veggi; bekkir eru með hliðveggjunum, en hvorki borð né húsbúnaðr. Annað tjald eða búð hugsast bak við, og heyrist það-an þrusk og læti. (*Skjálgr* kemr inn til hægri og lítr út um dyrnar).**

*Skjálgr:* Hví munu skrautmennin svo skjótt kveðja vorþingið? Þar fer hann Skagi Skoptason með gullhjaltann og ríðr mikinn. — Og þar gengr öldungrinn Þengill til skips, en eigi verðr hann „mjög-siglandi" í logni þessu. En hverr ferr þar? Heljarmaðrinn þeirra Svarfdæla, hann Svarfaðr. Þar gengr hann með Gnúpa-Bárði, tröllinu. Þar er vel á komið með vinum, er báðir eru jötnar. Hverjum mun þá húsbóndi vor bjóða vilja til öls, er fáir eru eptir nema þursarnir? (**Kallar**): Kom þú, Vífill, og ber bekki með mér. (**Vífill kemr**).

*Vífill:* Brátt muntu hætta verða, Skjálgr, að deila mér smá-erindunum, eða hvort veiztu eigi, að mér er frelsinu heitið?

*Skjálgr:* All-óþarft kalla eg það, að þér

sé frelsi gefið, muntu illa kunna með þann grip að fara, er eigi kanntu með þrælum að vera, svo að ámælislaust sé. Fyrir hvert afrek er þér frelsi heitið?

*Vífill:* Hvort veiztu eigi, vesall maðr, að eg fann Bleik Þórunnar húsfreyju í dali þeim hinum fagra, er eg nafn gaf og kallaði Bleiksmýrardal?

*Skjálgr:* Heyr á endemi! Muntu þykjast slíkra launa verðr, þóttu fyndir dróg eina afgamla?

*Vífill:* Skaltu svo nefna góðhest húsfreyju?

*Skjálgr:* Veit eg, að hún mælir margt eptir þér. En þá muntu kalla vilja afrek, það er eg vann, þá er eg fann göltinn Sölva og með honum sjautigi svína?

*Vífill:* Seint muntu þeim gelti gleyma. Má það og vel, fyrir því að miklu meira afreksverk vann galti sá en þú, er hann á þrem árum af sér gat slíkan fjölda grísa; mun hans nafn æ lifa, en þitt deyja illum dauða.

*Skjálgr* (reiðir til höggs): Viltu kunna hóf þitt, þræll?

*Vífill:* Já, og svara þó sem á mig er yrt.

*Skjálgr:* Skjálgdalr mun eigi mínu nafni gleyma, enda á eg marga tigu örnefna um endilangt hérað þetta; og þrekvirki var það,

fóli þinn, er eg á Góe kannaði Villingadalsveg og gekk vestr til héraðs.

*Vífill:* Hvort metr þú einkis, er eg gætti þúsund ásauða einn hið fyrra sumarið?

*Skjálgr:* Eigi mátu ærnar það mikils, er þær struku frá þér til fjalls, enda hefir þú nú fjósráð en eigi fjárráð síðan.

*Vífill:* Hvort mun það minni vandi vera, að gæta hundrað kúa en þúsund ásauða? Viltu jafnan skaprauna mér, og mun eg, þá er frelsið er fengið, hasla þér hólmgönguvöll og helzt á flóri miðjum. Mæt mér þar, ef þú vilt!

*Skjálgr:* Vel treystir þú nú vopni þínu, mykikvíslinni, og ertu all-ósvífinn.

*Vífill:* Þarf þá eigi að verpa haug eptir þig, er þú fellr á flórinum, þar sem haugrinn bíðr all-nærri vetvangi. Munu kýr Helga verða þér ávarðar sakir fornrar vináttu ykkar í millum, og halda haugi þínum sí-þíðum sumur og vetr.

*Skjálgr* (slær hann): Muntu draga dár að mér, þar sem þú ert þræll fastr á fótum!

*Vífill* (spakr og drjúgr): Þola skal eg högg þetta um sinn, enda muntu lítils meta þrælsgjöldin, en gjalda skal eg þér kinnhestinn, þá er eg em frjáls maðr orðinn.

*Skjálgr:* Standa mega tíu þínir líkar á götu minni, áðr en eg hræðumst þá.

(Þeir grípa sinn bekk hvor og fara).

(*Hrólfr* og *Auðun* koma inn hinum megin).

*Hrólfr:* Hvort er það satt, Auðun, að þú munir vilja gjöra þér bæ gagnvart bygð minni undir Gnúpufelli?

*Auðun:* Hvort er það satt, Hrólfr, að þú viljir spilla mægðum mínum við föður þinn?

*Hrólfr:* Engi skal eg ykkar sættir vera, ef þú ætlar að nema bygð í Saurbæ; hefi eg það land mér ætlað og svo dali alla til öræfa.

*Auðun:* Eigi er þá kyn, þótt grennast taki vinátta okkur. En vita máttu, að nauðigr sleppi eg því landi, er faðir þinn hefir gefið dóttur sinni, ef hún verðr mín kona. Vil eg einkis manns lögræningi vera, en þú gjörir sem þú vill, enda treysti eg réttlæti föður þíns, meir en eg uggi ójafnað þinn.

*Hrólfr* (reiðr): Veit eg ofsa þinn, þótt hægt farir. En vit þú það, Auðun rotinn, að eigi skal ambáttarsonrinn fá Helgu systur minnar, ef eg má ráða, og heldr skulu þursar og hálftröll hennar njóta en þú!

(Slær á sverðshjaltið og fer út til hægri).

*Auðun:* Þetta mun hann mæla til Þóris

þursasprengis; sá eg áðr samdrátt þeirra; vill hann það til vinna, að blóta henni þursinum, svo að hann nái landinu. En fyr skal! — — —

(Helga kemr inn um sömu dyr).

*Helga:* Hvort deilduð þið Hrólfr nú? Snúðugt fór hann, og eigi gegndi hann mér, er eg kallaða. Eða seg mer: hví ertu hugsjúkr?

*Auðun:* Víst deildum við, og er hann reiðr?

*Helga:* Veit eg að eigi ann hann okkr landins í Saurbæ.

*Auðun:* Og til þess að þú flytjir eigi byggð þína þangað, vill hann að annarr njóti þín en eg.

*Helga:* Hverjum mun Hrólfr vilja gefa mig?

*Auðun:* Þeim manni, er eg nauðigr særi eyru þín með að nefna.

*Helga:* Nefn hann, þó að illr sé.

*Auðun:* Þóri þursasprengi vill hann gefa þig.

*Helga* (hlær): Lengi var Hrólfrgersemi! En ertni er þetta en eigi alvara, eða hyggr hann að Helgi hinn magri muni vilja gefa dóttur sína berserki, og þó nauðiga? En nú skil eg liðsfjölda Þóris, og mun það satt, að Hrólfr hefir skotið þeirri flugu í munn honum, að

biðja mín, og vill hann hræða okkr, að við sleppum landinu.

*Auðun*: Þórir mun og hafa leitað liðs þeirra Þorsteins svarfaðs og Þengils; skil eg nú eptir á, að eg heyrða Þorstein segja: „Óráð er þér, að vilja kúga Helga hinn magra“. Má og vera, að Þórir hafi hreyft máli þessu við föður þinn, og þeir Hrólfr báðir, eða hví býðr faðir þinn slíkum mönnum til öls og fagnaðar?

*Helga*: Opt býðr faðir minn gestum til drykkju, enda er nú vorþingi lokið. En fáir mega fyrir-menn heita af þeim sem eptir eru, nema Gnúpa-Bárðr og þeir Þórir snepill, svo og Þormóðr rammi, og er hann þó hinn mesti berserkr.

*Auðun* (áhyggjufullur): Vongóð ertu, Helga, en eg ugga allt illt af illþýði þessu; er nú og faðir þinn liðfár, ef honum skyldi ójafnað bjóða.

*Helga*: Heima eru þeir Örn gamli, og nokkurir fylgdarmenn aðrir, svo og berserkirnir.

*Auðun*: Hvar eru þeir í dag?

*Helga*: Þeir skulu ryðja farveg Glerár, áðr hún spilli eigi eyrinni; og skulu þeir Örn og Teitr gæta þeirra, að eigi bekkist þeir til

við ferðamenn með fólsku sinni. Eru þeir orðnir all-óspakir, og væri betr sendir utan.

*Auðun:* Það hefir nú faðir þinn í ráði, enda mættu þeir nú koma í góðar þarfir að skenkja Þormóði ramma, er til lítils happs leysti þá af ísjakanum, er þeir hrutu út af knerrinum forðum.

*Helga* (hlær): Og miðgarðsormrinn gleypti þá? Skaltu nú svo fyrir sjá, að Sámr skenki þeim Þormóði, en mér muntu vilja ljá Glám, því að sá er enn ferlegri.

*Auðun:* Hvað viltu með fól það?

*Helga:* Að hann byrli vínið biðli mínum, honum Þursasprengi. (Hlær).

*Auðun* (tekr hönd Helgu): Gjörum eigi gaman að þessu; vandræði eru búin, þau er vel mættu verða svívirðing fyrir föður þinn og móður, þig sjálfa og oss alla!

*Helga* (tekr hina hönd Auðuns): Mun Þórir skora föður mínum á hólm eða berjast við hann, eða ætlar þú að hann steli mér nauðigri eða hertaki, eða brenni oss öll inni?

*Auðun:* Eigi óttast eg þetta svo mjög, sem eg óttast róg bróður þíns, að hann spilli svo föður þínum og finni þau ráð til, að eg fái þín eigi; muntu þá verða konan hans Þursasprengis.

*Helga* (með glettni): Hyggr þú að engi vilji eiga mig utan þursar og berserkir?

*Auðun:* Það hygg eg, að faðir þinn gefi þig engum nema Þóri, ef eg fæ þín eigi. (Hann þrýstir henni snöggt að brjósti sér og gengr út snúðugt).

*Helga:* Skapþungt er Auðuni, og má vera að málið sé gamanlaust. Illt er að Ingjaldr er eigi hér, eða Hámundr mágr vor, og léti hann síga brýnn sínar. En hversu má eg því trúa, að mannfýlur þessar deili kappi við föður minn, eða telji sig jafna oss? Aldri mun það! Auðun mun verða minn, og sonr okkar mestr höfðingi í héraði þessu! — Ambáttarsonr, segir Hrólfr. Ambátt var eigi móðir hans, heldr hernumin hersisdóttir, enda bætir Grímr kamban ættina. Nei, Auðun sjálfr bætir hana bezt. Kynstærðin fylgir tignarsvip, en eigi tignarnafni. Auðuns má eg eigi missa, en vera má að óunnin sé þraut, er nær gengr oss öllum. Mun okkr ráð að fara sem varlegast. Þeir, sem unnast, eiga jafnan fáa trúnaðarmenn, en öfundarmenn fleiri. (Fer út til hægri).

(*Þórir* og *Hrólfr* koma inn vinstra megin. — Þórir er mikill og svartr, hefir stálhúfu á höfði og er í svörtum kufli, gyrðr leðrbelti eða svarð-

reipi; hann hefir öxi mikla i hendi; hann er rámr og dimmraddaðr.

*Þórir* (er hann kemr inn): Vil eg nú segja þér ætt mína.

*Hrólfr* (við sjálfan sig): Tæpt spil er þetta, og mun föður mínum geðjast lítt að skrumi hans. (Hátt): Lát mig heyra þá.

*Þórir:* Heyrt hefi eg, að það sé ætlan yðar Flatnefjunga, að engi menn megi við yðr jafnast, hvorki að ætterni né að karlmennsku.

*Hrólfr:* Lát heyra föðurkyn þitt, Þórir!

*Þórir:* Föðurkynið? Faðir minn var Þrymr inn háleygski þursabani, en föðurfaðir minn Krumketill hinn hamrammi, Hraunbjálfasonr, Fornjótssonar hins fjórhama, Brundketilssonar berserkjaskelfis, Hrævandilssonar hálftrölls.

*Hrólfr:* Mikil ætt og stórfengleg.

*Þórir:* En móðir mín er Hervör gípa, sú er hér er nú stödd, Geirnefjúlfsdóttir, Fjölmóðssonar, Möttulssonar Finnakonungs.

*Hrólfr:* Fullkunn er mér Fjölmóðsættin.

*Þórir:* En Krumketill afi minn átti Skinnhettu Grottintannadóttur risakonungs; vóru þær fimm systr, og giptust fjórar norðr í Tröllabotna, en þær hétu: Fála og Gála, Reginleif og Rifinkjapta.

*Hrólfr*: Veit eg nú, að þú ert maðr eigi smáættaðr, enda þarf eigi lengra að rekja.

*Þórir*: Nú þótt margir frændr mínir hafi kolbítir verið og eigi einhama, þá hefir frægð vor víða farið; skal eg þar um eigi orðlengja, enda vil eg hitt vita, hverju faðir þinn svarar biðilsmálunum.

*Hrólfr*: Heldr fálega svarar hann, en sé þér þetta, sem mig grunar, áhugamál, muntu nær ganga verða, og fellr eigi tré við fyrsta högg. Muntu nú sjálfr hreyfa máli þessu í dag, en gæta þó vel skaps föður míns og sæta lagi, er allir eru sem kátastir.

*Þórir*: Allvel mælir þú, Hrólfr, og mun eg þinni forsjá hlíta.

*Hrólfr*: Hvort er Þormóðr hinn rammi vinr þinn og þeir útfirðingar?

*Þórir*: Vinir mínir víst, og hefi eg heitið Þormóði að gefa honum öxi þessa, Skessubana, en Ólafi bekk spjótið Flugu til liðveizlu. Eg ætla og, að þeir Gnúpa-Bárðr félagar sé og mínir menn, og er þó ótalinn einn fulltrúinn, sem er móðir mín, Hervör gípa.

*Hrólfr* (við sjálfan sig): Þá verðr bekkrinn fullskipaðr. (Hátt): Skil eg það, og mun hún

gala galdra nokkura, eða seiða til að ástir takist í millum ykkar Helgu.

*Þórir:* Hjall hefir hún sér gjörvan við fors þann, er hér er nærri, en allt er mér ókunnugt um brellur hennar. (Hlær).

*Hrólfr:* Vitr maðr ertu, Þórir, og komum nú og treystum betr vini vora.

*Þórir:* Þess em eg albúinn!

(Þeir fara út til vinstri. *Örn* og *Teitr* kom koma inn hægra megin).

*Örn:* Tröll hafi þá félaga, Þormóð hinn ramma og miðgarðsorminn, að þeir skyldu skila oss aptr berserkjunum; eða höfðu þeir tekið til snæðings?

*Teitr:* Þeir hvoma nú skyrið, og heyrist snörl þeirra langar leiðir. En hvort var þér eigi skemmt, er Hervör kerling þuldi yfir þeim við forsinn?

*Örn:* Ófagr formáli var það, enda kváðust þeir hafa spillt seið hennar og hrundið hjallinum í ána.

*Teitr:* En hvað munu þau Þursasprengir vilja hér með fjölmenni, eða hví mun Helgi bóndi stofna til samdrykkju?

*Örn:* Eigi veit eg það. Má vera að hann uggi ójafnað þeirra og vilji hann festa grið með mönnum.

*Teitr*: Fámennr er hann nú, og munum vér duga honum því betr.

*Örn:* Verum varir um oss. Illa gezt mér að þeim Þóri. Leggjum eigi af oss vopnin. En þar er kallað til okkar. (Þeir fara út til hægri. *Þórir* og *Hervör* koma inn til vinstri. Hún hefir skuplu á höfði eða kofra, er í röndóttum kyrtli, bundnum að sér með linda, og hanga þar við töfraþing. Hún hefir loðfeld á herðum, krókstaf í hendi, loðna skó og hanzka).

*Hervör* (másar og hvásar): Ertu viss um, að vargar þessir elti okkr eigi?

*Þórir:* Brott eru skræfur þær, eða hvar eru nú töfrar þínir og kynngi?

*Hervör*: Vandast nú málið, frændi. Heljarskinn þessi steyptu hjalli mínum í forsinn, og missta eg þar margra góðra gripa. Var að því komið, að eg seidda ykkr Helgu saman, en þá fipaðist allt fyrir mér við sköll berserkjanna.

*Þórir*: Illt var það, eða gaztu einkis vísari orðið um ráðahag minn?

*Hervör:* Eigi skaltu örvænta, ef þú sjálfr vilt sleninu hrinda, eða hver svör vill Helgi veita?

*Þórir*: Litlu svarar hann, enda hefi eg einkis hann beðið, en Hrólfr son hans segir, að hann taki þunglega málinu.

*Hervör*: Nærri fer það getu minni; miklu er meiri ofmetnaðr Helga en þess sé von, að hann gipti þér Helgu með góðu, enda ertu skræfa, Þórir, og næsta ólíkr fornum frændum þínum, þeim Krumkatli eða Hraunbjálfa eða Möttli konungi.

*Þórir*: Hvorki þarftu að frýja mér afls né áræðis, eða áttu meira undir tölum þínum og töfrum, en eg á undir hreysti minni?

*Hervör*: Ef þú hefðir metnað frænda þinna, mættir þú verða mestr maðr í héraði þessu; skal eg ekki mitt til spara að eggja þig fram og styrkja, að þú mættir yfirstíga einhverja þá, er okkr hafa æ viljað fótum troða.

*Þórir*: Eigi spara eg neinn þeirra, en þó má vera, að bezt sé að hætta við bónorð þetta.

*Hervör* (reiðir sprotann): Hætta! Nei, bleyða, þú skalt þegar í stað biðja konunnar, og synji Helgi þér ráðsins, skaltu þegar í stað bjóða honum hólmgöngu.

*Þórir*: Helga magra hólmgöngu?

*Hervör*: Já, hólmgöngu, ættleri! (Slær hann með sprotanum). Já, hólmgöngu!

*Þórir*: Áköf ertu, móðir, eða hyggr þú

mér vaxi í augum að berjast við hann magra Helga? (Hlær).

*Hervör*: Þá er vel, enda mun eg sjá um að vopn hans bíti eigi á skyrtu þína. Muntu þá annaðhvort drepa hann og taka svo dóttur hans frillutaki, ella mun hann leysa sig af hólmi með skömm, og bjóða þér Helgu dóttur sína til friðkaups. Vilda eg þá vita, hverjum við þyrftum að lúta í sveit þessarri.

*Þórir*: Í mikið er ráðizt og mun eg þurfa þinnar forsjár ef duga skal, en eigi hræðist eg hinn kristna manninn; hinu megu við viðbúast, að eptirtalsmenn eigi hann marga og ríka.

*Hervör*: Gjöra munum vér þá óskaðlega, enda má eigi í allt horfa, ef þú vilt mikið vinna og líkjast langafa þínum, risakonunginum. Verðr engi þinn uppgangr, fyr en Helgi er yfirstiginn, en úr því mun þig eigi skorta liðveizlu gnóga til að mæta sonum hans og hverjum öðrum er móti vill rísa.

*Þórir*: Haf þökk fyrir eggjan þína, og sé eg, að hólmganga þessi er hið mesta heillaráð; eða hvort skal eg hefna þín á berserkjunum?

*Hervör*: Lát úlfinn gleypa hrosshveli þau, og ýf þú eigi Helga fyr en hann hefir sví-

virt þig og synjað þér konunnar. Skaltu þá eigi hika; skaltu þegar hrinda fram borðinu og mæla svo: Eg skora á þig, Helgi hinn magri, að þú berjist við mig innan þriggja nátta í Þórunnareyju, og heit hvers manns níðingr, ef þú þorir eigi.

*Þórir* (hlær): Þetta líkar mér dável, eða mun hann eigi renna?

*Hervör*: Eigi mun metnaðr hans leyfa honum að renna, en meiri von er hins, að bæði verði Kristsmaðrinn magr og hvítr. En nú mun mál að þú gangir til samdrykkjunnar.

*Þórir*: Fylg mér, móðir, og reyn með oss mungát Helga.

*Hervör*: Eigi em eg skrautbúin, né vön að snapa um hýbýli manna, en þó mun eg fylgja þér, því vera má að þig ella skorti brýningina. (Þau fara).

## 2. sýning.

**Önnur tjaldbúð stærri með dyr á gafli, en líkt búin og hin; skildir hanga yfir sætum manna; smá borð eru beggja vegna fyrir gestunum. Búðin er skipuð mönnum; þeir Skjálgr og Vífill ganga um hvorum megin og ausa drykkinn úr byttum, er standa á borðunum, og bera mönnum í hornum eða kerum. — *(Helgi***

*magri* sitr á miðjum bekk til vinstri frá áhorfendunum í hásæti; á hægri hönd honum sitr *Auðun* og þá *Teitr;* en til vinstri handar honum sitja *Hrólfr*, *Þórir snepill* og *Hjálmun-Gautr*. Hægra megin sitr *Gnúpa-Bárðr* í öðru hásæti gegnt Helga; á hægri hönd honum *Þormóðr rammi*, og þá *Ólafr bekkr*, þá *Örn;* en vinstra megin við Bárð sitr *Þórir þursasprengir*, þá *Hervör* móti Teiti).

*Helgi* (stendr upp með horn í hendi): Nú er vorþingi voru er lokið, er eg glaðr að mega í góðu næði fagna gestum þeim, er oss hafa heimsótta. Mæli eg það fyrst til þín, Bárðr bóndi; ver þú velkominn með oss, svo og allir þeir, er komnir eru af Birni bunu; svo býð eg og þig velkominn, Þórir snepill, og Gaut fóstbróður þinn, kappann; eruð þið nú fluttir í nágrenni við oss, og er slíkum sjálfboðið. Er oss öllum skylt og þarft að gæta sem bezt friðar og laga, en forðast deilur og ójafnað, meðan héruð eru fámenn og lögin veik í landinu. Þá segi eg og ykkr velkomna, Þormóðr og Ólafr bekkr, svo og yðr Hörgdæli; viljum vér telja yðr vini vora, þótt sjálfráðir séuð þér yfir landnámum yðrum. Vil eg víst, að fullr friðr megi haldast með oss öllum samhéraðsmönnum, svo og utan héraðs. Njótið nú með oss gleði og góðrar

skemmtanar og látið yðr vel smakkast hinn nýja bjór vorn, er nú er framboðinn! (Sezt).

*Gnúpa-Bárðr* (stendr upp): Eigi em eg maðr veltalaðr á þingum eða þjóðsamkundum, enda hefi eg annan starfa haft um mína daga; em eg nú sex tigu vetra og hafða eg hvert sumar síðan eg var tíu vetra legið úti á langskipum; er mér því nýnæmi friðr og hóglífi. Nú em eg hingað kominn að bjóða þér vináttu, Helgi bóndi; ertu mikillar sæmdar verðr, bæði sakir ættar og eiginna framkvæmda. Væntir eg, að það rúm þyki vel skipað, er við sitjum saman, hvort sem frið skal bjóða eða flein rjóða. Líkar mér vel, að vér gætim sem bezt friðarins meðan land er þunnskipað og fjárafli lítill. Drekk eg minni þitt og konu þinnar, Hámundar mágs þíns og allra vina þinna. Bið eg yðr sem bezt að þrífast, en goðin gæti vor allra! (Drekkr og sezt).

*Þórir snepill*: Slíkt hið sama minni drekkum við Gautr félagi minn, og vildim við hin sömu orð til þín, Helgi, talað hafa. Sit þú sæll að öldri, ítr í öndvegi, heill í hásæti og á hestbaki; styrkr vertu í styr og á stýrisblakki, og auðnusæll á öllum leiðum! (Drekkr).

*Helgi*: Þökk vinir, og hríni yðrar heillaóskir á yðr sjálfum eigi síðr en oss.

*Teitr*: Þitt minni drekk eg, Gautr (stendr upp og Gautr í móti), og vil eg hverfa til þín!

*Gautr*: Heill og sæll, góðr félagi (þeir kyssast á miðju gólfi), eða hversu má fótr þinn, sá er eg af þér hjó forðum?

*Teitr*: Allvel má tréfótrinn, og vel dugði lífsteinninn.

*Gautr*: Vel er þá, og skaltu minn vin æ vera, fyrir því að né eitt einvígi hefir mér betra þótt, en þá er eg fékkst við þig, og ertu afreksmaðr. (Þeir fara í sæti sín).

*Örn*: Eg drekk minni ykkar, útfirðingar, Þormóðr rammi og Ólafr bekkr; eða hvern veg lætr ykkr æfin út þar? Er eigi svalt um salkynni yður og alldauflegt samsætið, er sól hverfr og hríðir harðna?

*Þormóðr*: Dauflegt er þar og þó ætusamt, en eigi sakna eg sólbirtinnar svo mjög sem mér sárnar hitt, að hljóta heima að kúra og hafast ekki að. Veit eg eigi hversu land þetta má þrífast, ef vantar víkingina og engi afiar sér fjár og frama með hernaði. Vilda eg, Helgi bóndi, að vér tækim aptr upp sið allra dugandi manna og lægim úti á herskipum meðan nótt er sem dagr í fjörðum þessum. Vilda eg leita til Vestfjarða eða Austfjarða; eru þar hafnir gnógar; mætti þar sæta

knörrum þeim er koma og fara, en taka strandhögg þess í miðlum; myndi það notagott reynast og mælast vel fyrir.

*Helgi*: Vel er mælt, bóndi, og eigi allhyggilega. Miklu er land þetta fámennara en svo, að það þoli styrjaldir og strandhögg, enda er það eign vor sjálfra og hver landsmaðr skyldr til annan að verja; má eg eigi sjá, að landsbyggðin megi ella festu ná og fullri skipan.

*Gnúpa-Bárðr*: Vel er mælt og vitrlega, bóndi.

*Ólafr bekkr*: Eg em háleygi og all-vanr vosi, en eigi hefi eg hlut minn látið hér til. Nú þótt eg hafi rauðr víkingr verið og allvel iðn þeirri unað, mun eg héðan af helzt kjósa, að búa í friði búi mínu. En það er til Hvanndala kemr, er við Þormóðr deilum um, þá er eigi víst, hvort fullr friðr má lengi með oss standa.

*Þormóðr*: Veiztu það, Ólafr, svo og þú sjálfr, Helgi bóndi, að Hvanndalir liggja til míns landnáms, mun eg þá og aldri lausa láta.

*Ólafr*: Hversu viltu, Helgi, það mál dæma.

*Helgi*: Engi er hér dómstaðr, en ráð kann eg ykkr að gefa, ef þið viljið þiggja, en það

er, að hvor ykkar hafi dali þá um sinn eitt sumar.

*Þormóðr*: Engi er von þess, að eg vilji vera lögræningi nokkurs manns.

*Helgi*: Sé eg, að eigi er auðvelt að sætta ykkr um þetta. Nú er það minn vilji, að þið skirrist vandræðum, þar til er eg kem til ykkar og skipti löndum með ykkr. Standi svo sök þessi óhreyfð að sinni.

*Þormóðr*: En hverju vilt þú, Helgi bóndi, launa mér bjargir við berserkina, þá er eg tók af jakanum forðum? Hefi eg þeirra bóta lengi beðið, enda em eg nú og albúinn við að taka.

*Helgi*: Hitt hugða eg, Þormóðr rammi, að eg hefði þann greiða launað þér, er þeir unnu þér sjálfum þrjú ár, enda fekk eg þér allan Héðinsfjörð, og tók eigi fé fyrir.

*Þormóðr*: Það fjarðar-kríli þóttist eg með réttu eiga, er enginn byggði þar fyrir.

*Helgi*: Látum svo vera, en bíða muntu verða bótanna, þar til eg kem til fundar við ykkr, og mun ykkr þá verða launað að verðungu.

*Gnúpa-Bárðr*: Eigi kann sá maðr að sjá sæmd sína, er þessum kosti hafnar.

(Menn taka að gjörast ölværir).

*Teitr* (til Hervarar):

Hamljót í framan
hnípin sitr Gípa!

*Hervör*: Teiti tréfæti
tautak helþrautir.

*Teitr*: Bikkjan nefblakka,
belg fær þú hjá Helga.

*Hervör*: Leið er vábeyða,
Loptr, haltu hvopti!

Hún hnippir í Þóri).

*Þórir* (stendr upp): Vitanlegt gjöri eg þér, Helgi magri, að eigi erum vér kumpánar hér komnir til að drekka öl þitt eða hlýða lögskilum; hirði eg aldri hvað menn klifa á þingum. Til hins em eg kominn, að biðja þig, að þú festir mér Helgu dóttur þína; ætla eg mig vera henni fullkosta, enda læt eg þau ummæli fylgja, að eigi kýss eg að vera lengi vonbiðill hennar, og vil eg svar hafa nú þegar.

*Hervör*: All-vel færist frændi minn í aukana í dag og rekr lítt í vörður.

*Helgi* (stendr upp): Eigi vænti mig þess, Þórir, að þú mundir þetta mál svo skjótt upp bera, enda farast þér svo orð, sem viljir þú bjóða oss kúgun nokkura. Mun eg máli þessu

eigi skjótt svara. Er þér og bezt, Þórir, að kunna hóf þitt, og etja eigi ofrkappi við oss.

*Hervör*: Upp nú, Þórir, og frest eigi því, er fyrir var ætlað!

*Þórir* (hrindir borðinu): Heyri það allir, þeir er hér eru inni, að eg skora þér á hólm, Helgi magri, innan þriggja nátta í Þórunnareyju!

*Hervör*: Þar þekki eg aptr Hálftröllsættina!

*Gnúpa-Bárðr*: All-djarfr er glópaldi sá!

*Örn*: Halda mundum við Teitr vilja skildi fyrir þig, Helgi bóndi.

(Auðun stekkr upp, bregðr sverði og stígr fram á mitt sviðið, en Þórir sezt).

*Auðun*: Heyri það allir menn, að eg býð þér einvígi, Þursasprengir, á hinum sama stað, og fyr en hólmganga sú er reynd, og ver hvers manns níðingr, ef þú þorir ekki að berjast við mig.

*Þórir* (hlær hátt): Hvað vill kögursveinn sá bjóða mér einvígi; eða muntu vera í þingum við Helgu; ber þá all-vel í veiði.

*Helgi* (stendr upp): Kyrrir allir! Hér eru full grið inni og fellr sá óheilagr, er vopni særir annan. Þú, Þórir, hefir fyrstr manna boðið mér hólmgöngu; er þér vorkunn, fyrir

því að þú átt illa móður og ert maðr lítt siðaðr. Nú mun eg til hólmstefnunnar koma, en svo skaltu fyrirbúast, sem byggð þín og Hervarar verði skömm í landnámi voru. Mun hvorki þér né neinum yðar auðið verða að standa yfir höfuðsvörðum mínum; segir mér og svo hugr um að þú, Þórir, munir skaplegt erindi eiga til hólmstefnunnar. Nú mun eg brott hverfa úr samsæti þessu, en heimilt er mönnum öl mitt; muntu Örn, og þú Teitr, stöðva hinn mesta harka hér inni, og lifið nú vel! (*Helgi*, *Hrólfr* og *Auðun* fara).

*Gnúpa-Bárðr:* Sitja mun eg enn lítt það og gæta búðar Helga vinar míns; mætti og vera, að hér yrði hrundningar nokkurar, þær er gaman væri að.

*Þórir:* Nú skal drekka sem fastast.

*Hervör:* Vel fór nú frændi, og verum sem öruggust; ýf þó eigi Gnúpa-Bárð, en hina þarftu eigi að hræðast.

(Þórir tekr byttuna og teigar).

*Þórir:* Það ætla eg Tréfótr, að drykkr sá muni svikinn vera. (Kastar byttunni til Teits).

*Teitr* (raular):

Þurs ertu Þórir,
þitt full er bytta!

(Kastar aptr í Þóri).

*Þormóðr* (stendr upp): All-illt er það, er eigi má aðhafast; eða viltu nú, Ólafr, sleppa Hvanndölunum? (Hrindir honum).

*Ólafr*: Veit eg að skalli þinn er fullr úlfbúðar, en vel máttu una, þar til lokið er liðveizlunni við Þóri.

*Þormóðr*: Eigi veit eg það; sė eg að hann er hið mesta fól, og svo ert þú!

(Hrindir Ólafi á Örn, en hann honum aptr á bak í sætið).

*Gnúpa-Bárðr* (stendr upp): Kyrrir, knapar mínir, og klæja mig nú lófar! Hefi eg sjaldan reiðr orðið, en í hvert sinn sent nokkura menn til heljar með knefum þessum (slær í borðið mikið högg). Nú gjöri eg góðum mönnum vitanlegt, að eg býðst til að deyða hvern yðar, þann er eigi kann sig vel að veizlu þessi!

*Þormóðr*: Nú mun eg hamast, og kann eg eigi við kúgun þessa! (Hann þrífr til Ólafs; óhljóð, allir standa upp).

*Teitr* (til Arnar): Nú mun ráð að sýna þeim berserkina. (Örn fer).

(Þórir vill ráðast á Teit, en Bárðr heldr honhonum með annarri hendi, en Þormóði með hinni).

*Hervör* Kunn hóf þitt, Þórir!

*Þórir*: Lát mig mölva tréfót þenna!

(Berserkirnir æða inn og grenja hátt).

*Hervör* (æpir hátt): Tröllin hafi berserkina! Dugi þú nú, Bárðr! (Hleypr í fang Bárði).

(Allir verða forviða. Berserkirnir taka Þormóð og kasta út. Togast síðan á við Bárð um Hervöru og dregr hvað annað út með óhljóðum. — Þórir og Ólafr bekkr eru í þvögunni. Örn kemr).

*Teitr* (raular):

Tuskast týsterkir
tröll og berserkir!
Eptir sést ekki
á óæðra bekki.

*Hjálmun-Gautr*: Út munum vér fara, Þórir snepill félagi, og er okkr nú nýtt um varninginn. Sýnist mér Bárðr, vinr vor, sé nú í algleymingi. (Þeir fara).

*Örn* (lítr út): Þar berjast þeir allir!

*Teitr* (lítr út): Hvort mun Bárðr hlaða báðum berserkjunum?

*Örn*: Klauf hann eigi Glám þar í herðar niðr?

*Teitr*: Njóti hann heill handa!

*Örn*: Þar rennr Sámr á Þursasprengi og glíma þeir æði-tröllslega.

*Teitr*: Og nú berjast þeir Þormóðr og Ólafr um Hvanndalina! Förum nú til og skiljum þá! (Þeir fara).

(Yss og vopnabrak heyrist úti. *Ólafr bekkr* og *Þórmóðr rammi* koma og fleiri menn með brugðnum sverðum. *Þormóðr* sækir að *Ólafi).*

*Þormóðr*: Tröll ertu, Ólafr, er þig bíta eigi járnin.

*Ólafr*: Af þér er nú hamremmin og mun nú jafntefli með okkr.

*(Helgi, Hrólfr, Auðun, Örn* og *Teitr* koma með brugðnum sverðum. *Helgi* er reiðulegr og reiðir sverðið að *Þormóði).*

*Helgi*: Gjör annaðhvort, Þormóðr rammi, kunn hóf þitt og slíðra sverðið, ella muntu nú hvorttveggja láta verða, lífið og ofmetnaðinn!

*Þormóðr* (hikar fyrst, en slíðrar svo sverðið): Eigi vil eg vopn bera á móti þér, enda slíðri þá Ólafr sverð sitt.

*Ólafr*: Til þess em eg albúinn (slíðrar sverðið), og þín sök var hark þetta en eigi mín.

*Helgi* (spakari): Heyrið nú mál mitt og hlýðið til: Hafið mín ráð, og farið héðan með friði, en eg mun síðar koma til fundar við yðr og skera úr málum yðrum.

*Þormóðr*: Grið skal Ólafr af mér hafa uns vér heim komum, en eptir á eg að efna liðveizlu mína við þá Hörgdæli, og mun eg þó eigi ýfast við þig, Helgi, meir en eg em til knúðr.

*Ólafr:* Halda skal eg grið þau, er þú setr, Helgi, svo og sátt þá, er þú gjörir milli okkar Þormóðs, en meiri von er hins, að hann rjúfi.

*Örn* (sem litið hefir út): Þar hefir Bárðr fellt báða berserki þína. (Bárðr kemr).

*Bárðr:* Fallnir eru svakamenn þínir, bóndi, eða viltu bætr hafa?

*Helgi:* Óbættir skulu þeir, er þeir rufu griðin, enda vil eg nú, Bárðr, og þér allir, að allt sé kyrrt og fari hver heim til sín sem búinn er.

*Bárðr:* Eigi tel eg hark þetta, og sjaldan hefi eg um mína daga setið að siðlátara samkvæmi eða mildara mannfagnaði. Vil eg nú, Helgi, að skilnaði bjóða þér norðr í dal minn til boðs um vetrnáttaskeið, og með þér svo mörgum mönnum sem þér líkar og sit hjá oss hálfan mánuð. En við yðr, útfirðingar, vil eg ekki eiga; en þú, Örn gamli og þú Teitr, og þú hinn ungi maðr (bendir á Auðun), eruð velkomnir til vorra hýbýla; skortir þar eigi kjöt digrt og flesk breitt.

*Helgi:* Haf þökk, Bárðr, og munum við fara. (Allir fara).



# 3. þáttr.

## 1. sýning.

Hin minni tjaldbúðin sem í 2. þætti. *Helgi magri* gengr um gólf.

*Helgi:* Heldr fatast mér nú héraðsstjórnin. Skal nú höfðingi Eyjafjarðar reyna hólmgöngu við Þóri þursaspreng? Og ef eg neitaði að berjast? Eða leysti mig af hólmi? Eða ef eg léti lífið fyrir illhryssing þessum? Eða ef eg færi nú þegar og léti taka Þóri af lífi eða reka brott? Allstaðar er virðing vor í veði, og berjast *hlýt eg.* Svo mun eg og gjöra, enda þarf mér eigi mjög að vaxa í augum að eiga vopnaviðskipti við afglapa þenna, þótt styrkr sé og mikillega láti, því lítt vanr mun hann vera vopnum að beita og all-klárvígr. En eigi er Auðun, þótt vaskr sé, vanari hólmgöngum, og er illt að hætta lífi hans í hendr Þóri, en eigi mun annað tjá. Vona eg að hamingja vor og hylli guðsins muni enn vel duga. En Hrólfr hefir mér all-óþarfr verið í þessu máli. (Lítr út og kallar). Kalli menn Hrólf son minn. Eða, hví mun hann svo mikinn fjandskap leggja á Auðun? (Hrólfr kemr). Óvitrlega fór þér,

Hrólfr, að vilja festa vinfengi nokkurt við þurs þenna, og hlýt eg óvirðing af þér.

*Hrólfr:* Hví mælir þú slíkt, faðir? Eigi bað eg þig að fastna Helgu Þóri.

*Helgi:* Það sagðir þú, að vel mætti hann verða slíkr maðr, að oss væri hið mesta traust að binda félagsskap við hann.

*Hrólfr:* Brátt sá eg það, faðir, að eigi mundi tjá að festa vinfengi við Þóri, enda er móðir hans hálfu verri en hann; en það gekk mér til, að eg ann Auðuni með engu móti að fá Helgu.

*Helgi:* Anntu þess betr ósiðuðum berserki, eða hversu skal orð þín skilja?

*Hrólfr:* Hefir þú eigi gefið Helgu landið í Saurbæ, en tekið af landnámi því, er eg vilda hafa? Féll mér það all-þungt, og fyrir því vilda eg gjarna spilla ráðahag þeirra Auðuns og fá Helgu öðrum manni gipta. Þóttist eg og sjá litlu meiri veg fyrir oss í mægðum við Auðun, en þótt þú hefðir gefið hana — —

*Helgi* (tekr fram í): Hættu, Hrólfr, sé eg að þú ert bæði ágjarn maðr og grályndr. Skaltu nú héðan af sitja hjá málum þessum og engi afskipti af hafa, ella skaltu hafa reiði mína.

*Hrólfr* (smeykr): Eg vilda vera þér einlægr, faðir.

*Helgi*: Eigi er þín einlægni góð, og skapraun hefi eg af þér.

*Hrólfr*: Þá vil eg sjá um, að ekki verði af hólmgöngu þeirri.

*Helgi* (reiðulegr): Lengra og lengra stefnir þú frá drengskapnum, og þegi þú nú um þetta mál! (Auðun kemr). Þú, Auðun, Hrólfr hefir kala til þín, og vil eg nú að þið séuð sáttir. Vil eg að allir mínir frændr og vinir haldi sátt og samþykki eins og jafnan hefir verið; munu og kynsmenn vorir jafnlengi njóta hamingjunnar sem samþykki þeirra og ættrækni varir.

*Hrólfr*: Gjöra vil eg það til skaps þér, að þiggja sátt af Auðuni, ef hann býðr mér.

*Helgi*: Viltu, Auðun, fyrir mín orð sættast við Hrólf, þótt hann hafi afgjört við þig?

*Auðun*: Gjarna, ef hann vill þiggja, en það ætla eg nóg, að þú setjir grið milli okkar, þar til eg hefi þreytt einvígi það, er hann hefir með fljótræði sínu til stofnað; muntu, Hrólfr, hafa viljað flýta mægðum við mig, enda mun eg þeirra jafnskjótt leita, er

eg hefi fellt Þóri, en leyst af hólmi hinn mesta höfðingja á landi þessu.

*Helgi:* Konuna hafða eg ætlað þér, eða ertu einhuga í að berjast?

*Auðun:* Víst vil eg berjast og eigi níðingr heita, enda yrði eg þá af konunni.

*Helgi:* Fullhugi ertu, og skaltu víst berjast.

*Hrólfr:* Viltu að eg haldi skildi fyrir þig?

*Auðun:* Haf þökk, Hrólfr, en engi skal það gjöra utan eg sjálfr, enda er þetta einvígi, og er þá ótítt að menn láti verja sig.

*Helgi:* Hvort mun Hjálmun-Gautr farinn brott eða eigi?

*Hrólfr:* Ófarinn mun hann enn, og sitja á tali við þá Örn og Teit.

*Helgi:* Hann á sverðið Ljóma, sem um er sagt að aldri nemi í höggi staðar ef fullhugi beitir. Munum vér nú fara til fundar við hann og fala af honum sverð hans.

(Þeir fara út til hægri. Rétt á eptir koma þær *Þórunn* og *Helga*).

*Þórunn:* Vandast nú ráð vort, Helga, er beggja líf er í veði, föður þíns og unnusta. Bauð eg Helga mikinn varnað á að bjóða eigi illmenni því til öls með góðum mönnum. En satt er það all-lítt skil eg ráða-

gjörðir hans um héraðsstjórnina; kvaðst hann þurfa að reyna hollustu þessarra manna og sýna þeim hæverska siðu, en þá ætla eg slíka menn seint munu kunna.

*Helga:* Eg kann hér enn færra til að leggja, og eru þetta annarra ráð en okkur. Eru köld sögð kvenna-ráðin, en eg hygg að oftar sé þetta öfugt, og fegin vil eg nú holl og góð ráð heyra af þér, móðir.

*Þórunn:* Ráða vilja þeir nú einir, enda kann eg hvorki þeim né þér utan eitt ráð að kenna.

*Helga:* Hvert ráð er það, móðir?

*Þórunn:* Að við heitum á Krist til fulltingis og látum þá svo berjast.

*Helga:* Heitið hefi eg á hann og á öll goð önnur, þau er eg hefi spurn af haft.

*Þórunn:* Eigi er það ráð, dóttir, því að eigi má saman blanda kristnum guði og heiðnum vættum. Gjaldið þér þess jafnan, börn mín, að þér hafið heiðið uppfóstr fengið.

*Helga:* Á hvert goð heita kristnar meyjar, ef þær hvorki heita á Frigg eða Freyju?

*Þórunn:* Á Máríu móður drottins vors, er var mær skír.

*Helga:* Mikil undr fylgja þeirri trú; en

vel er mér enn til Freyju, þótt eigi kallir þú hana góða; eða hversu má nokkur kona trúfastari vera en hún var Óði bónda sínum?

*Þórunn:* Nefn eigi Freyju, og vil eg eigi heyra hennar getið.

*Helga:* Gjarna vil eg fylgja þínum ráðum, og gjarna trúa á það goð, er þú vilt, og hjálpar það ástvinum vorum. Eða, hvort hyggr þú að faðir minn muni berjast við berserk þenna?

*Þórunn:* Svo mun hann gjöra verða, ella er virðing hans og vor í veði. En hvort hyggr Auðun, að hann muni fella Þóri?

*Helga:* Fullhugi er hann og mun hann gott til hyggja, en hjá mér eltir óttinn vonina, enda mun föður mínum hætt ef Auðun —

(Hún byrgir andlitið).

*Þórunn:* Heim skulum við fara og flýja á náðir Krists. Karlmenn mega mörgu treysta, en konur engu nema guði sínum.

*Helga* (harkar af sér): Víst eru goðin vort bezta traust; en hví mundum vér eigi einnig treysta mega drengskap og hreysti. Næst Freyju — nei, Máríu, treysti eg vaskleik unnusta míns og hamingju vor allra.

*Þórunn:* Þá er vel, dóttir, er þú mátt

af þér harka. Vonin er æskunnar ljós, en trúin stafr hinna eldri. Oss konum er og gefin hreysti—hreysti til að þola hugstríð og raunir. En hröðum nú, of lengi hefir okkr dvalizt.

(Þær fara út til hægri. *Auðun* og *Hjálmun-Gautr* koma inn til vinstri).

*Auðun:* Mikla liðveizlu sýnir þú mér, Gautr, er þú vilt ljá mér sverðsins, eða hversu skal með fara?

*Gautr:* Hygg nú vel að, Auðun, því er eg segi þér um sverð mitt, því að furðuverk er það og stólpagripr. Vil eg fyrst segja þér nokkur deili á sögu þess og afreksverkum, eða hvort hyggr þú sverð þetta dauðan hlut vera?

*Auðun:* Eg hygg það lifandi vera, þá er þú hefir brugðið því, en dautt er það nú í skeiðunum.

*Gautr:* Rétt segir þú, og merk vel sögu mína. Sverð þetta er úr Austrvegi, og þó í fyrstu úr því landi er Asía heitir, þar er sól ríss fyrst og fjöll eru öll úr rauðagulli. Hét konungr sá Indri eða Sindri, er það lét smíða af dverginum Dvalni, þeim er síðar lærði Völund og þá bræðr. En Óðinn flutti sverðið til Svíþjóðar; veit eg eigi um æfi þess og

afreksverk fyrr en þeir Sigmundr og Sinfjötli höfðu það í orrustum, en síðan Sigurðr Fáfnisbani, þá er hann eigi hafði Gram.

*Auðun:* Allfrægt mun sverðið vera, og seg enn gjörr.

*Gautr:* Síðan bar það Starkaðr hinn gamli og hafði það fyrstr í hólmgöngum; munu þér kunn hans stórvirki. En næstr Starkaði átti sverðið Sigurðr ormr í auga, en hann týndi því í Austrvegi; fór hann þá heim, og dó af helstríði, og er hann í haug lagðr að Hálsi í Limafirði.

*Auðun:* En hversu komst sverðið í þína eigu?

*Gautr:* Fara skal fljótt yfir sögu og segja þó það, er þú þarft að vita. Við Þórir snepill félagar herjuðum mörg sumur í Austrveg. Einhverju sinni lágum við við Lífland og höfðum þrjú skip. Vissum við eigi fyrr, en að oss lögðu víkingar á fimm skipum, og vóru öll stór. Maðr mikill sem tröll stóð við siglu á dreka þeim, er mestr var; sá spurði oss að heiti, en kvaðst sjálfr heita Vandill hinn víðfrægi; könnuðumst við brátt við, að hann var hinn mesti hermaðr. Dugði þar og eigi friðar að biðja. En er bardaginn festist, hljóp Vandill á skip mitt

og ruddist um fast. Sá eg þá að eigi mundi svo búið duga, enda sá eg og að hvergi bitu hann járn, en hann vó með sverði því, er ekki hélt við. Þreif eg þá hjálmunvölinn af stýrinu og gekk í móti víkinginum. Lauk svo okkrum viðskiptum, að eg kom höggi á þunnvanga honum og féll hann, og hugða eg hann dauðan vera. Eptir það lögðu víkingar frá. En þá raknaði Vandill úr rotinu og hafða eg þá tekið af honum sverðið.

*Auðun:* Vildi hann lifą eptir að hafa látið sverðið?

*Gautr:* Rétt er til getið, og var hann all-úrillr og kvaðst aldri mundu við raknað hafa, ef hann hefði vitað sverðslát sitt. Buðum vér honum grið, en hann svaraði engu; og er minnst varði, hljóp hann útbyrðis, og sáum vér hann aldri síðan.

*Auðun:* Og síðan hefir þú jafnan borið sverð þetta, eða veiztu öll þess afreksverk?

*Gautr:* Veit eg að Ljómi hefir að velli lagt ellefu konunga, tvo tigi jarla, fimm tigi berserkja, og ótal aðra menn.

*Auðun:* Hvort hefir þú sjálfr haft það í hólmgöngum!

*Gautr:* Sverð þetta hefi eg sautján sinn-

um haft á hólmi sjálfr, og Þórir snepill tólf sinnum, en að auki hafa með því vegnir verið sex híðbirnir, fimm finngálkn, tveir flugdrekar, margýgir þrjár og lyngormr einn.

*Auðun:* Frægt vopn er þetta, og seg mér nú náttúru þess.

*Gautr:* Ef þú vilt sigr vega, skaltu gjöra hamarsmark Þórs fyrir þér áðr en þú bregðr; skaltu og helzt standa undan sól, og forðast að eigi skíni hún í eggjarnar. Eigi skulu konur eða börn við vera, þá er Ljóma er brugðið, og eigi má hann slíðra, nema blóð hafi áðr á komið. Lífsteinn fylgir, og er bundinn við hjaltið. Skal svarfið leggja við hvert sár, er hann veitir, og mun þá skjótt gróa, ef eigi er banvænt; græðir Ljómi eigi síðr sár en veitir. Ljæ eg þér fyrir því sverðsins, að eg sé að þú munt þora því að beita, enda er það bani hvers manns, að bera það, er eigi er fullhugi. Njót nú vel og skila mér aptr er þú þarft þess eigi lengr.

(Hann ýmist réttir sverðið eða tekr aptr).

*Auðun:* Seg mér, vinr, þar þú ert mjög reyndr í hólmgöngum, hversu skal haga höggvaviðskiptum í einvígi?

*Gautr:* Rétt er spurt og skal eg þér segja. Þú skalt hvergi ótt fara í fyrstu og

treina sem bezt afl þitt og þrek. Skaltu jafnan miða högg þín við háls og höfuð óvini þínum, en aldri við fætur. Skaltu svo venja hann að hann gleymi fótunum. En þar skaltu hann hitta, því fallinn er hver, sem fótanna missir. Tak nú við sverðinu.

*Auðun* (tekr við því): Haf þökk, Gautr, og ljá manna heilastr!

*Gautr:* Eg em nú maðr sjautugr, og munda eg þó enn vilja einnar hólmgöngu freista, ef einhverr vildi bjóða, og þiggja munda eg hana þótt eg vissa bana minn búinn. Mun það og mál allra gamalla hólmgöngumanna, að né ein skemtan finnist, sú er meiri fögnuðr fylgi. (Raular:)

Séð hefik sóma,
setið við dóma,
drepist úr dróma,
drukkið lög góma,
hlýtt á sönghljóma,
horft á kvennblóma,
en glaðast skal róma
gullhjaltann Ljóma!

(*Auðun* bregðr sverðinu hart).

Rétt er brugðið, og muntu fella Þóri!

(Þeir fara).

## 2. sýning.

Þórunnarey. Skógarrjóðr. Næst áhorfendum er tjald hvorum megin. Innar á sviðinu setja þeir Skjálgr og Vífill upp stengr og mynda lítinn hring; þeir festa bönd milli stanganna, sem stíga má yfir. Það er um aptrelding.

(Út úr tjaldinu vinstra megin kemr *Hervör*; hún er hölt og staulast við hækju, heldr á úlpu eða skyrtu. Hún sezt niðr áhorfenda megin við tjaldið og breiðir skyrtuna á kné sér, tekr upp buðk og ríðr á hann og þylr yfir. Út úr tjaldinu hægra megin koma þær *Þórunn*, *Ingunn* og *Helga*. Þær bera vopn í höndum og setjast við tjaldið gegnt Hervöru og taka að fægja vopnin. Hvorugar sjá aðrar).

*Þórunn* (fægir hjálm Helga):

Hlíf þú höfðinu,
hvíti Kristr!
Hér set ek herkuml,
hinn helga kross!

*Hervör* (hinum megin):

Merktr er Þórr
þér á baki,
en Loki á brjósti
Laufeyjarsonr!

*Helga* (fægir panzara):

Hlíf þú, panzari,
prúðu hjarta

míns elskhuga,
María signdu!

*Hervör*:

Rýð ek roðru
rammra orma,
ok útburða
eitrglætu,
remmi-rót
úr Risaheimum,
ok læ-sáldi
úr Lokasjóði!

*Ingunn* (fægir sverð):

Heyr þú oss Mikjáll,
höfuð ertu engla,
gefðu signing sverði,
sigr mun þá fylgja!

*Hervör*:

Þik skulu engar
eggjar bíta,
strýk ek of boðang,
bol ok ermar,
fit ok fald
hef ek fjölþreifat
ok handleikit
með heiptarkyngi.

*Þórunn* (hefir staðið upp og horfir yfir áhorfendrna):

Hvílir nú ítr
Eyjafjörðr,
friði falinn
í faðmi njólu.
Sign þú nú sól
með sigrgeislum
minn litfagra
lausnar-hólma!

(Helga og Ingunn standa upp).

*Ingunn:*

Sé ek sólgull
á Súlu-tindi —

*Helga:*

Sigrmark yfir
sjafna hjálmi!

*Þórunn:*

Hamingju-mark
yfir Hyrnu kyni,
ok höfði þínu,
Helgi hinn mæri!

(Þær taka saman vopnin og fara fyrir hornið, en Hervör stendr upp).

*Hervör* (reiðir hækjuna):

Ills bið ek öllu
yðru kyni,

berist þér eptir
banaspjótum!
Fari frægð yður
til fárheima,
ok hamingja
í helgreipar!

(Hún haltrar fyrir hornið og sér Þórunni, sem ekki er farin inn).

Reynt skal nú, Þórunn hyrna, hvort meira mega forn fræði mín eða metorðin þín!

*Þórunn*: Ill kona ertu og meinsöm, en meira má fulltrúi minn en fordæða þín!

*Hervör*: Vera má, að hann Auðun rotinn fái Helgu, en það mæli eg um, að skömm verði sambúð þeirra!

*Þórunn*: Þegi ill norn, og mun eg brenna þig með krossinum helga! (Gjörir krossmark).

*Hervör*: En eg mun treysta Ginfaxa!

(Ristir rúnir í lopti, gólar, skirpir og grettir sig).

*Þórunn*: Hlíf oss, Kristr! (Fer inn í tjaldið).

*Hervör* (hælist um): Á svei, þokaði Þórunn hin ríka! Hertu þig, Hervör gípa! Skal nú inn og brýna piltung minn! (Fer inn).

(Þögn litla stund; þá heyrist hornblástr til hægri, og annar til vinstri; gengr svo þrisvar og líðr litið á milli. Þá koma herklæddir menn fram úr skóginum beggja vegna; hægra megin þeir *Helgi*, *Hrólfr*, *Auð-*

*un*, *Örn* og *Teitr*, og fleiri menn, en hinum megin *Þórir*, *Þormóðr rammi* og fleiri. Hvorirtveggja raða sér sínir hvorum megin hólmsins og talast við lágt. Við tjaldið til hægri standa þær *Þórunn*, *Helga* og *Ingunn*. *Hervör* stendr við sitt tjald ein. Þá er þrisvar blásið snöggt beggja megin. Auðun og Þórir stíga inn á hólminn með brugðin sverð. Auðun er í panzara og hefir gylltan hjálm á höfði, en rauðan skjöld í vinstri hendi og markaðr á kross. Þórir hefir stálhúfu og svartan fjaðraskúf á; hann er í skyrtunni og gyrtr svarðreipi eða ólu).

*Auðun* (heilsar með sverðinu): Þú skalt fyrst höggva, Þórir, er á þig var skorað, eða viltu heyra hólmgöngulögin?

*Þórir:* Ertu sá glópr, að þú veizt eigi, að eigi gilda hólmgöngulög í einvígi?

*Auðun*: En ef þú fellr óvígr, Þórir, skal eg þá drepa þig, eða viltu þá leysa þig af hólmi?

*Þórir:* Hel skal þig af hólmi leysa!

(Einvígið byrjar. Þórir höggr tíu eða tólf högg, og læzt Auðun eigi geta annað en varið sig, en eigi hopar hann neitt. Helga hallar sér að brjósti móður sinnar).

*Örn*: Högg nú, Auðun!

*Teitr:* Gleym eigi fætinum; það varð mér forðum.

*Helgi*: Rétt er barizt!

(Auðun sækir nú að Þóri, og höggr átta eða tíu

högg, og hopar Þórir í hring á sviðinu og hniprar sig undir skjöldinn. Konurnar æpa).

*Helgi:* Frækinn maðr ertu, fóstri!

*Hervör:* Dugi nú þær Irpa og Hörgabrúðr; en hvorki mun Þórir fá heilundar sár né holundar!

*Þórir:* Hvílum oss lítt það!

*Auðun:* Veitt skal þér hvíldin, og eigi löng. (Þeir hvílast upp við stengrnar).

*Þórir:* Betr ertu vígr en eg hugða, en eigi bítr sverð þitt á hlífar mínar.

*Auðun:* Spyr þú að leikslokum! (Kveðr:)

Bíðk fúss meðan brúðar
brásól mér á hólmi
skínn, þótt skelfitrjóna
skaptgríðar fram skríði.
Hátt enn kveði hrotta
hljómstef regindóma
(leiðist Ljóma at bíða
lengi), Þursasprengir!

(Þeir berjast aptr, og gjörir Þórir harðari hríð en fyr, en Auðun stendr kyr).

*Auðun:* Blási menn til úrslita, og skal nú Ljóminn lýsa!

(Það er blásið snöggt. Auðun sækir nú að Þóri, en hann hopar útaf hólmsviðinu; hann fær högg á hjálminn og um búkinn, en hvergi bítr. Loks höggr hann á fótinn og fellr Þórir í fang Hervarar).

*Auðun* (þá er Þórir fellr): Tak við fóstri þínu, Hervör, og er nú af fótrinn!

*Hervör*: Umsnúist jörðin og gleypi yðr öll! (Hún stumrar yfir Þóri. Helga hleypr í faðm Auðuni. Lítil þögn).

*Þórunn*: Komum við, Helga, ekki vinnum vér hér. (Þær fara inn í tjaldið, en menn bera Þóri inn í þeirra tjald, og fer Hervör á eptir. Á meðan æpa þeir Helgi sigróp, og hlaupa á þá Þormóð. Orrusta; þeir Þormóðr flýja, og er sviðið tómt litla stund. Þá koma þeir Helgi aptr. Örn og Teitr tala við Auðun).

*Helgi*: Unninn er Þórir, og felld er forneskjan. Enn er friðr í Eyjafirði!

*Hervör* (í tjaldsdyrunum): Lifir Þórir enn, og það kann eg þér að segja, Helgi, að svo mjög sem þú treystir nú ríki þínu og hamingju, mun hvorttveggja dala, er tímar líða, og eigi mun friðrinn langær verða í ættum þínum.

*Helgi*: Eigi vil eg yrðast við þig, og hefir nú hvíti Kristr skipt með oss sigrinum.

*Hervör*: Meir muntu trúa á metnað þinn en goðin, enda mæli eg um, að aldri þrífist Kristsnes, meðan þínir niðjar þar búa!

(Fer inn).

*Hrólfr*: Hví skyldum vér nú spara illþýði þetta; vil eg það allt af lífi taka.

*Helgi*: Í griðum skulu þeir brott fara um sinn, en skömm mun nú byggð þeirra Þóris verða í Eyjafirði. — En þú, Auðun fóstri, njóttu heill handa, og hefir þú nú höggvið þér braut til öndvegis í ættum vorum.

*Auðun*: Þá hefi eg og fengið full laun fyrir það, er eg fyrstr sá landið, enda þykist eg nú heldr nokkuð að manni orðinn en fyrr.

*Helgi*: Nú þurfum vér eigi að ugga óaldarmenn þessa, og skulu nú mál þessi kyrr standa, þar til þeir Hámundr koma heim, en þá mun eg liði safna og friða aptr hérað vort. (Þeir fara).



# 4. þáttr.

## 1. sýning.

Stofa í Kristsnesi. Hún er stærri og skrautlegri en tjaldbúðin. Hún er tjölduð allt umhverfis og hanga skildir og önnur vopn yfir sætunum. Sitt öndvegis-

sætið (hásæti) er hvorum megin á hverjum bekk, en bekkirnir með endilöngum hliðum. Dyr eru framarlega á hægra vegg; arinn er á miðju gólfi, en engi eldr á. Pallbekkr er um þvera stofuna innar frá.

(*Þórunn* sitr á miðjum pallinum og dætr hennar, *Þórhildr* og *Þóra* til hægri, en *Hlíf* og *Þorbjörg hólmasól* til vinstri. Þær eru allar gjafvaxta, nema Þorbjörg, sem er 6 eða 7 ára. Griðkonur tvær hengja refla upp í stofunni, og eru langt komnar).

*Þórunn*: Hengið skjöld Helga, Glæsi, yfir hásæti hans. (Það er gjört). Leggið hægindi í óæðra öndvegið.

(*Örn* og *Teitr* koma í kápum og með stálhúfur).

*Örn*: Heil, húsfreyja!

*Teitr*: Heilar meyjar og manns konur!

(Þær Þórunn koma fram á sviðið).

*Þórunn*: Komið heilir af kaupstefnu, og kunnið þið víst mörg tíðindi að segja.

*Örn*: Heita má að uppi sé hverr fótr og fit í héraðinu.

*Þórunn*: Svo mun vera, eða hvar er Helgi, og hversu gekk kaupstefnan?

*Örn*: Brátt mun hann heim koma; löngu hafði hann og þeir Svarfdælir lokið að leggja lag á varning Austmanna.

*Þórunn*: Hvað mun þá tefja hann?

*Teitr*: Skipkoma ný og merkileg.

*Örn*: Auðólfr hinn prúði af Jaðri og þeir

fóstbræðr hans, Þorgeirr og Gunnarr, er utan fóru hið fyrra sumar.

*Teitr*: Og skortir þá eigi nýjan varning og fáséðan. (Systrnar klappa lófum saman).

*Þórunn*: Góð og óvænt tíðindi; eða hvort mun Auðólfr og þeir félagar nú vilja staðfestast á Íslandi?

*Örn*: Það heyrða eg á ræðum manna, að einhverr þeirra hefði sagt, að þeir mundu allir vilja kjósa sér bólfestu hér í Eyjafirði, ef góð lönd yrði í boði. Var og allmikið talað um auðlegð þeirra, svo og Bjarmalands-för.

*Allar systrnar*: Bjarmalands-för?

*Teitr*: Sagði og einn maðr mér, en það var sendimaðr Þóris þursasprengis, er nú nefnist Bægifótr, að þrjár vættir gulls væri á skipinu, og ætti sína vætt hverr þeirra félaga.

*Örn*: Þórðr slítandi sagði mér hið sama, og grét hann yfir gullinu.

(Þær hlægja).

*Teitr*: Kvað hann það vera Valshellisgull; og lá á því flugdreki ákafamikill. En þá svaf drekinn, er þeir kómu í hellinn, og lagði Auðólfr hann með sverði undir bægslið, en þeir Þorgeirr og Gunnarr gegnum sitt auga hvorr, og gengu svo af honum dauðum.

(Systrnar klappa lófum saman).

*Þórunn*: Ótrúleg er saga sú, enda eru menn einatt hraðkvæðir um gullið.

*Örn*: En frétta-Bárðr sagði svo frá, að gull sitt fengi þeir á Bjarmalandi og ryfi haug til; var ein fló af grjóti, önnur af silfri, en hin þriðja af gulli. (Þær klappa).

*Þórunn*: Eigi er þá kynlegt, þótt góðan hafi þeir varninginn; en ýkjur eru þó þetta, eða kunnið þið fleiri tíðindi að segja?

*Teitr*: Ósögð eru enn þau tíðindi, er hinum ungu konunum, dætrum þínum, munu enn fróðlegri þykja.

*Systrnar*: Hver eru þau, og seg oss skjótt!

*Teitr* (hlær): Meir þörfnumst við félagar matar vors, en að skemmta yðr með þeim tíðindum.

*Þórunn*: Það mun og satt vera, og far þú, Hrefna, og ber mat á borð í skála.

(Önnur griðkonan fer).

*Systrnar*: Þú, Örn, seg þú oss fréttirnar!

*Örn*: Engar kann eg að segja, og mun Teitr vera mér fróðari í dag, ef þetta eigi eru glettur hans. (Talar hljótt við Þórunni).

*Þórhildr*: Gjöra skal eg láta gullfót og gefa þér, Teitr, ef þú sparar eigi nýmælin.

*Teitr*: Vel er boðið, eða hverju viltu, Hlíf, sæma Teit vin þinn?

*Hlíf*: Bera skal eg þér sjálf mjöð þinn morgun og kvöld í gullhorni.

*Teitr*: Enn kærra er mér þetta en gullfótrinn, en seg nú þinn vilja, Þóra, þú ert kostakona. (Tekr undir höku hennar).

*Þóra*: Eg skal bjóða báðum ykkr Erni í horn til mín, þá er þið aptr verðið börn, og ala ykkr sem ungkálfa! (Öll hlægja).

*Örn*: Bezt er þetta boðið, og seg nú fréttir þínar, Teitr, og ábyrgst sjálfr að sannar sé.

*Teitr*: Svo mun eg og gjöra verða (setr sig í stellingar). Þau boða eg yðr tíðindi — nema henni Hólmasól — horfðu hýrt við mér Hólmasól! (Þrífr hana í fang sér).

*Þorbjörg*: Slepptu mér, Teitr gull-gullkálfr!

*Teitr* (kyssir hana og sleppir svo): Hvort viljið þér leyfa okkr að eta fyrst döguröinn.

*Allar hinar eldri*: Víst eigi, og seg oss nú þegar!

(Þær hlaupa allar á Teit og gæla við hann).

*Þórhildr*: Seg mér, Teitr trúfasti!

*Hlíf*: Mér, Teitr tryggðatröll!

*Þóra:* Nei, mér, mér, fagri, væni furuviðar-fótr!

*Teitr:* Sleppið mér þá og sparið blíðlætin sem bíðið þér betra færis. Verið nú settar sem húsfreyjur. (Þær gjörast allar settar). Þau eru tíðindin, að þeir fóstbræðr allir koma hingað í dag þess erindis, að (hikar) að — að — eta mat! — (Lágt til Þórunnar): Að biðja dætra þinna.

(Örn og Teitr hlægja).

*Systrnar:* Etið sjálfir mat, þorparar!

(Þær reka þá út með galsa).

*Þórunn* (kallar): Kyrrar, brott með glens þetta! (Þær koma allar alvarlegar): Sönn munu tíðindi þessi vera, og samir yðr þá betr alvara en glaumr og gáski. Allra yðar, þér eldri, munu menn biðja í dag, og fær það mér bæði áhyggju og gleði. Eg hefi einnig ung verið, dætr mínar, og leikið með léttu skapi. En nú hefi eg þrjá tigu ára lifað í hjúskap með föður yðrum og þolað með honum mörg og mikil auðnubrigði.

*Þórhildr:* Góð var æfi þín við írsku hirðina, móðir.

*Þórunn:* Góð er æfi ríkra kvenna meðan þær eru ungar og ógefnar, og all-góð var mín, svo sem eg hefi yðr optlega frá sagt.

Eins og aðrar ungmeyjar, hugða eg sæluna þá fyrst fengna, er eg væri göfgum manni gefin. Varð það og mitt hamingju hlutskipti. En þá nam eg nýtt örlagaland.

*Hlíf*: Sakna muntu sem von er Dýflinnar hinnar fögru.

*Þóra:* Og dansanna írsku.

*Þórunn*: Fjarri fer því. Að vísu var eg rík og auðug, hét „lafði mín“, og lét mér sem drottningu þjóna, en þó var eg opt hin vesalasta allra kvenna.

*Þórhildr*: Því mun ófriðrinn mikli valdið hafa.

*Þórunn*: Rétt segir þú. Faðir yðvar hafði landvörn á hendi og lá á skipum úti hvert sumar, og var eg optlega með honum.

*Þóra*: En hvar vóru börnin?

*Þórunn* (raunaleg): Börnin — börnin? Þau urðum við jafnan að selja í fóstr — misjöfn — ill fóstr.

*Hlíf*: Hræddist þú ekki orrusturnar, móðir?

*Þórunn*: Eg hræddist eitt — eg hræddist hvert kvöld, að eg vakna myndi ekkja og ambátt. (Þegir litla stund). Svo — eptir nokkur ár og tuttugu létum við vini, lönd og óðul.

*Þórhildr*: Og eptir það bjugguzt þið til Íslands?

*Þórunn*: Eptir það bjuggumst við til Íslands. (Bregðr handlíni fyrir augu sér).

*Þóra*: Grætr þú, móðir?

*Hlíf*: Harmar þú enn Írland?

*Þórunn*: Eigi harma eg Írland, og þakka eg guði, er leiddi oss þaðan sem úr loganda eldi til jökullandsins hins kalda og hins hvíta. Megið þér vita, að hér hefi eg lifað æsku mína aptr, og aldri unað æfinni betr, en í ró og friði þessara snædala; hefir oss og mikil og fátíð hamingja fylgt æ síðan við vígðum guði land þetta og stigum fyrst á það fæti. Enn þá vökna mér ávallt augu, er eg minnist þeirrar stundar, er eg steig á knörrinn, og sá að hann stefndi norðr í hin ógnandi höf. (Lítil þögn). Það var kvöld eitt og stóð eg við siglu, en Helgi við stýri. Eg horfði sem í leiðslu á hús tvö á ströndinni milli tveggja hamra; á öðru hékk blæja á stöng og blakti í vindinum. Þá gekk fóstra mín að mér til skilnaðar og minntist við mig og grét mjög, en eg — eg féll og lá lengi í óviti. (Aptr lítil þögn; hressari): En — tökum nú annað tal, tölum um tíðindin.

*Þórhildr*: Tala þú, móðir, en vér hlýðum.

*Hlíf*: Veiztu nokkuð um forlög vor móðir?

*Þórunn*: Guð ræðr forlögunum, en um suma hluti grunar mig, og sumt hefir mig dreymt.

*Þóra*: Hvað hefir þig dreymt, móðir?

*Þórunn*: Eigi segi eg yðr, enda skal fáa drauma marka, en fram mun koma í dag það er eg sagða yðr; munuð þér innan skamms allar eiginkonur verða og síðan mæðr. Skuluð þér í fersku minni geyma heilræði þau og reglur, er eg hefi gefið yðr.

*Þórhildr*: Gef oss ný heilræði í dag.

*Þórunn*: Hægt er góð ráð að gefa, en erfitt eptir að breyta. Það er hið fyrsta heilræði mitt, að þér hafnið trú á heiðnar vættir og látið eigi útbera börn.

*Allar*: Aldri skal eg út bera börn.

*Þórunn*: Það annað, að þér trúið á einn guð og son hans Krist hinn krossfesta. Mun yðr og niðjum yðrum sú trúan vænst og drjúgust til hamingju. Það er mitt þriðja heilræði, að þér séuð góðar húsfreyjur og kennið börnum yðrum drengskap og fagra siðu. Það hið fjórða, að þér munið sögu Ketils flatnefs, svo og föður yðvars og móður, og allra frænda vorra. Þú, Þóra, ert yngst

hinna eldri, seg mér nú aptr, hver heilræðin vóru.

*Þóra*: Hið fyrsta er að bera eigi út börnin —

*Þórunn*: Að hafna trú á heiðnar vættir.

*Þóra*: Annað að trúa á guðið og krossinn hans helga —

*Þórunn*: — á guð og Krist hinn krossfesta.

*Þóra*: Hið þriðja að ala upp börn — og — og — kunna hana Ketilssögu.

(Þær Þórhildr og Hlíf brosa).

*Þórunn*: Stirð ertu í fræðunum, dóttir, enda er og meira vert, að muna vel fáar reglur og stórar, en illa hinar mörgu.

(*Helgi*, *Auðun* og *Helga* koma. Helgi heilsar Þórunni með kossi, Helga eins, en kasta kveðju á systrnar).

*Auðun*: Heil, húsfreyja! Heilar, systr!

*Helgi*: Farið systr, og stráið bekki og búið málstofuna. Gesta er von.

(Þær líta upp á hann, sem vilji spyrja, en snúa út).

*Þórhildr* (bendir Helgu): Kom, systir, og þú Auðun, ef þú vilt, og munum við spyrja — segja ykkr tíðindi. (Fer, og hinar með henni).

*Helga*: Forvitnar eru systr vorar nú, og komum til þeirra, Auðun. (Þau fara).

*Þórunn:* Seg tíðindi, kæri! Eða er það satt, að þeir Auðólfr séu út komnir?

*Helgi:* Satt er það, og með mikinn varning og góðan.

*Þórunn:* Og með þrjár vættir gulls úr Valshelli?

*Helgi* (hlær): Það hafa þeir Örn sagt yðr, enda var það í almæli fyrst, en er markleysa ein. Hitt er satt, að þeir fóru til Bjarmalands og héldu þar kaupstefnu mikla og hafa því of fjár.

*Þórunn:* Og allir eru þeir drengir góðir, og gezt mér jafnvel að öllum.

*Helgi:* Nú vilja þeir og setjast að hjá oss og fá hjá oss jarðir og bústaði — og —

*Þórunn:* Seg enn gjörr.

*Helgi:* Og dætr okkrar, sína hverr þeirra.

*Þórunn:* Og hverju svaraðir þú?

*Helgi:* Eg kvaðst fyrst vita vilja svör þín og þeirra, enda bauð eg þeim til öls með oss í dag, og áttu nú margra gesta von, því að þeir Ingjaldr og Hámundr eru að eins ókomnir.

*Þórunn:* Fréttir segir þú, eða hverrar bað hverr þeirra félaga?

*Helgi:* Eptir aldri, hinn elzti hinnar elztu.

*Þórunn*: Auðólfr Þórhildar, Þorgeirr Hlífar og Gunnarr Þóru?

*Helgi*: Og Gunnarr Þóru, og ætla eg það sé sem við bæði myndum kosið hafa.

*Þórunn*: Svo er víst, enda er hinn yngsti þeirra allra stilltastr, og hann kýs þá er yngst er og vanstilltust.

*Helgi*: Hvað hyggr þú um vilja dætra þinna?

*Þórunn*: Eigi óttast eg, að all-löng verði fyrirstaðan, enda svari þær sjálfar fyrir sig.

*Helgi*: Eigi heldr óttast eg það, og hræðist eg nú fáa hluti framar; hefir Kristr veitt oss mikið og langt auðnulán.

*Þórunn* (grípr hönd hans): En eg hræðist tvennt.

*Helgi*: Hvað tvennt?

*Þórunn*: Það annað, að synir þínir reisi hof og hörga og blóti heiðin goð, þá er þú ert allr. Mikið var vort forna hamingjuleysi, og þó það mest, að börn vor námu heiðna trú, en eigi kristna.

*Helgi* (strýkr ennið): Svo munu þeir víst gjöra, enda veiztu, að eigi mega kristnir menn í friði búa við heiðna, og hafa þó manna forráð; en sárt harma eg þetta, Þórunn, og má þó eigi við gjöra.

*Þórunn*: Og fyrir því óttast eg hið annað, og er það hamingja okkar, sú, er við bæði undrumst. Seg mér, hversu mega þeir menn sælir vera, er eigi trúa á sannan guð?

*Helgi* (lýtr niðr): Allir menn hyggja sinn guð sannan vera. En eigi megum vér við meini þessu gjöra, og er það hin eina ófarsæld okkar. Munum vér fela mál þetta guði.

*Þórunn:* Dreymt hefir mig, að eigi líði all-langr tími þar til hinn kristni siðr verði lögfestr á landi þessu.

*Helgi:* Það er og eigi ólíklegt, og hlýtr þó margt áðr að breytast, en fyrir þann grun gaf eg bæ vorum nafn Krists, enda hefir Kristr mér jafnan ávarðr verið síðan, og mun hann miklu betri vera, en vér megum skynja; þótt hlutlausa láti hann oss um margt. Mun og Kristr mest virða réttvísi og aðra hegðun góða; vel mun honum og líka til heiðinna manna, sem hreinlega lifa, og eigi reiðast, þótt trúa þeirra sé óvitrleg og nefni þeir guð sinn röngu nafni.

*Þórunn*: Vel mælir þú enn, og er mér nú hugléttara (leggr hendr um háls Helga): Blessað veri land þetta, þú sjálfr og börn vor og menn allir!

*Helgi* (tekr báðar hendr hennar): Með góðri konu bregzt eigi hamingjan, hvort sem með blæs eða móti. Og þrennu hefir þú kennt mér að treysta, Þórunn.

*Þórunn:* Hverju þrennu?

*Helga:* Kristi, þér sjálfri og hamingju minni.

(Þorbjörg hólmasól kemr inn).

*Helgi* (tekr hana í faðm sér): Hefir sólin vor einnig biðil fengið?

*Þorbjörg:* Já, Gjaldi er kominn og Hámundr og margir menn með gull og gimsteina!

*Þórunn:* Þá munu þeir allir komnir vera, og göngum fram!

(Þau fara. *Skjálgr* og *Vífill* koma og bera skutla og drykkjarföng).

*Skjálgr:* Set hér kerið, Vífill.

*Vífill* (sýpr á): Gott er mungát þetta, og gott eigum vér frjálsir menn.

*Skjálgr:* Dirfist þú að drekka af kerum húsbóndans? Hyggr þú þetta vera þræladrykk, er höfðingjar drekka í stór-veizlum, svo og vér aðrir, sem frjálsir menn erum?

*Vífill* (slær hann tvö högg): Haf þetta fyrir fúlmennsku þína. Veit eigi glópr þinn, að Helgi gaf mér frelsið fyrir hálfri stundu síðan?

*Skjálgr* (með reiddan hnefann): All-djarfr gjörist þú, og lát mig ná þér!

*Vífill* (bregðr saxi): Sjá hér til sanninda, eða bera ánauðugir menn sverð?

*Skjálgr* (verðr hægari): Satt er þetta, og mun eg þó þinn yfirmaðr jafnan verða.

*Vífill*: En nú mun eg bjóða þér tvo kosti, að þú sért jafningi minn, eða undirmaðr ella.

*Skjálgr*: Undirmaðr þinn? (Bregðr saxi og höggr til Vífils).

*Vífill*: Já, undirmaðr minn! (Höggr á móti; Skjálgr flýr, en Vífill eltir hann út).

## 2. sýning.

Málstofan lík þeirri og í 3. þætti.
*(Auðun, Ingjaldr, Helga).*

*Auðun*: Röskleg er ferð ykkur orðin, og all-merkilegt er land þetta, eða hittuð þið hvergi ófrið eða ójafnað?

*Ingjaldr*: Engi maðr sýndi oss nokkurn ójafnað, og engir eru hér ránsmenn né stigamenn, og aldri drógum vér sverð til hálfs úr slíðrum; er þetta land öllum öðrum ólíkt.

*Helga*: Land þetta þykir hart og kalt, en eg munda vel á því una, þó að eg lifa skyldu þúsund ár.

*Ingjaldr*: En það er satt, eigi hefir þó yðr logizt ófriðrinn meðan vér vórum í för þessi. Eða seg mér, Helga, hversu barst þú af þá er Auðun fékkst við berserkinn?

*Helga* (brosandi): Vel bar eg mig, þegar af honum var fótrinn. (Þeir hlæɡja).

*Ingjaldr*: Hví gekk eigi faðir vor milli bols og höfuðs á illþýði þessu?

*Auðun*: Nægja lét hann sér að vísa þeim mæðginum brott úr Eyjafirði, enda tók hann af þeim fé mikið.

*Ingjaldr*: Landhreinsun var að hyski því, en betr hefði verið að belgr hefði dreginn verið yfir höfuð Hervarar, áðr hún fór alfari.

*Helga*: Skaplegar fengu þau skriptir, og eigi bera þau nú all-hátt höfuðin.

*Ingjaldr*: Hvort er hin sama fæð enn með ykkr, Hrólfi, bróður mínum!

*Auðun*: Milli okkar er tyllisætt, enda mun lengst verða fátt í frændsemi okkarri.

*Ingjaldr*: Þá skal vera því fleira okkar í millum, og er eins eptir að spyrja: hvort er enn ódrukkið festaröl ykkart Helgu?

*Auðun*: Ykkarrar komu hefir það beðið, enda er nú gnógr út kominn mjöðrinn.

*Ingjaldr*: Góð tíðindi eru það.

*Helga*: En eigi verðum vér ein um ölið,

eða hvort veiztu eigi, að þeir bræðr eru hér komnir til að biðja systra vorra?

(Þær *Þórhildr, Hlíf* og *Þóra* koma, og ganga stillilega; þær eru prúðbúnar. Þórhildr talar í hljóði við Helgu).

*Helga*: Komum vér hin, eigi mun oss hér að sinni til setu boðið.

(Helga, Auðun og Ingjaldr fara).

*Þórhildr* (í lágum hljóðum): Bæði er nú að mikið stendr til, enda er mér eigi all-rótt um hjartað.

*Þóra:* Svo er og mér, og heyri eg sláttinn.

*Hlíf:* Svo er og mér, og látum þó sem ekki sé.

*Þórhildr*: Svo munum vér og gjöra, og ræð eg þér, Þóra, að tala fátt og spaklega, segja já eða nei, og taka lítið af öllu; mun eg óðara vísa málinu til föður míns, og er eg þá sjálf úr sökinni.

*Þóra:* Miklu skiptir, hvort sagt er já eða nei í þessum málum, og mætti mann lengi iðra öfugyrðisins, enda kýs eg eigi, að eiga allt mitt ráð undir tepruskap tómum.

*Hlíf:* Skulum vér eigi sitja, eða hverr skal í miðið vera?

*Þórhildr:* Sitjum vér, og eg í miðið, en

upp skulum vér standa í móti þeim, þá er þeir koma, og eigi fyrr en þeir heilsa oss.

(Þær setjast allar á bekk beint fyrir áhorfendunum. Rétt á eptir koma þeir *Auðólfr*, *Þorgeirr* og *Gunnarr*. Þeir bera rauða kyrtla og bláar skikkjur á herðum með stórum feldardálkum gylltum. Þeir hafa gullhlað um enni, gyrtir búnum sverðum. Þeir lúta hæversklega systrunum, en þær standa upp og heilsa í móti; síðan takast þau tali og koma þau, sem hátt tala, jafnan fremst á sviðið, en fjarlægjast svo).

*Auðólfr:* Fagr er fjörðr þessi í dag, og aldri þótti mér hann fegri.

*Þórhildr:* Gott er það að heyra, því að góðr þykir oss hann, enda var í almæli hið fyrra árið, að eigi festuð þér fóstbræðr yndi hér með oss og mynduð þér eigi aptr koma. En mér þótti sem hin fámenna byggð vor mætti eigi missa svo vaskra manna.

*Auðólfr:* Bæði var það, að vér áttum frændr og fjárheimtur í Noregi, enda hugða eg það land betra en mér nú þótti; kunna og flestir illa ríki Haraldar konungs.

*Þórhildr:* Þá hafið þér eigi gjörzt handgengnir?

*Auðólfr* (brosir): Aldri vil eg selja körlum trúnað og þjónustu, og eigi þó konungar væri.

(Fjarlægjast).

*Hlíf*: Hvaðan komið þér fóstbræðr nú síðast?

*Þorgeirr:* Frá Englandi með hveiti, malt, klæði, járn og fleira.

*Hlíf:* Mikil búsæld mun þar vera. En seg mér: hvar mun þér sýnast fjörðr þessi fríðastr?

*Þorgeirr* (bendir): Þar beint, eða heitir þar eigi Fiskihverfi?

*Hlíf:* Fiskilækjar-hverfi köllum vér, og sýnist mér sem þér; mætti þar og hafa rausnarbú mikið, akra og veiðiskap.

*Þorgeirr*: Þar hygg eg nú að biðja föður þinn að gjöra mig ílendan, en — (lítr framan í Hlíf og þegir).

*Hlíf:* En þig mun skorta kvikféð?

*Þorgeirr*: Kvikféð má kaupa.

*Hlíf:* Sagt er, að þér fóstbræðr hafið fé mikið, að þér alla hluti megið kaupa er yðar augu girnast, eða er það eigi satt?

*Þorgeirr:* Fé skortir oss eigi, en hið bezta og dýrasta skortir, og má það eigi ætíð fé kaupa. (Fjarlægjast).

*Þóra:* Hvort hefir þú þá engan drekann vegið?

*Gunnarr:* Engan dreka.

*Þóra:* Og eigi finngálkn?

*Gunnarr:* Ekki finngálkn.

*Þóra*: Og engan híðbjörninn?

*Gunnarr:* Engan híðbjörn.

*Þóra:* En lyngorm hefir þú víst vegið, sem frændi vor Ragnarr loðbrók?

*Gunnarr:* Eigi heldr lyngorm, og er mér það skaði mikill, er þú heitir Þóra.

*Þóra* (hálf-feimin): Nema þú viljir kalla föður minn lyngorm, en mig Borgarhjört og — og ynnir þú síðan lyngorminn.

*Gunnarr* (tekr hönd hennar): Og þótt eg yrði þá eigi jafn-frægr maðr og Ragnarr, verð eg svo sæll sem hann var, er hann komst í skemmubúrið. (Fjarlægjast).

*Þorgeirr* (heldr í hönd Hlífar): Mæl þú allra meyja heilust, og hefi eg aldri jafn-glaðr verið.

*Hlíf:* En gleym eigi að faðir minn og móðir skulu gjaforði mínu ráða. (Fjarlægjast).

*Auðólfr* (kemr með Þórhildi): Hvað er nú Þórhildr? (Lítr við). Munu eigi þeir fóstbræðr mínir vera orðnir mér hlutskarpari og hafa báðir eignazt vinkonur, eða hversu muntu svara vilja, ef eg leitaði líkrar vináttu við þig? (Hún þegir og horfir niðr fyrir sig). Hafa mig eigi hingað dregið landkostir Eyjafjarðar, heldr leiðarstjörnur þær, er skína undir hvörmum þínum.

*Þórhildr:* Vel ferr þér, og víst mundi þér

þetta mál auðsótt, ef eg mætta ein fyrir ráða, eða hefir þú nokkuð átt tal við föður minn?

*Auðólfr:* Veit eg að hann muni eigi synja mér ráðsins. Eða — (réttir fram höndina, en hún sína).

*Þórhildr:* Verði þá vilji foreldra minna.

(Öll hjónaefnin raða sér beint fyrir áhorfendunum; þau *Auðólfr* og *Þórhildr* í miðið).

*Auðólfr:* Mælt var hér í héraði, að við fóstbræðr hefðim gengið í Valshelli og haft þaðan með oss þrjár vættir gulls. Sú saga er að vísu öfgar einar, en þó höfum vér nú aflað þeirra gersima, er hver vegr meir en gullvættin. Viljum vér nú öll ganga á fund foreldra yðvarra, þér fögru systr, og festa þar einkamál vor og mægðir við hina göfgustu ætt á þessu landi. En síðan munum vér bjóða þeim Helga og liði hans til skips vors og sýna yðr (lýtr systrunum) gripi þá og varning, er vér keypt höfum handa yðr, enda eptir leita, hvort eigi muni finnast festaröl á skipinu.

## 3. sýning.

Stofan frá fyrstu sýningu. Borð eru sett með bekkjunum, og á þeim drykkjarföng, horn og bikarar.

(Menn ganga til sætis: fyrstr sezt *Helgi* í öndvegi sitt vinstra megin, en gegnt honum *Hámundr* í sitt öndvegi; innar af honum sitja þeir *fóstbræðr*, en utar frá *Auðun* og *Geiri skáld.* Innar frá Helga sitja synir hans *Ingjaldr* og *Hrólfr*, en utar frá honum *Örn* og *Teitr.* Því næst koma inn konurnar og ganga til sætis á pallinum; sitr *Þórunn* í miðið, en *Ingunn* og *Helga* á sína hönd henni hvor; þá sitja *hin nýju brúðaefni* út frá til hægri handar Þórunni, en á hina *Þorbjörg* (næst Helgu) og þá konur *Hrólfs* og *Ingjaldar.* Þeir *Skjálgr* og *Vífill* fylla hornin).

*Helgi* (tekr sér horn í hönd): Velkomnir vorir nýju vinir og tengdamenn! Velkominn þú Hámundr mágr og þú Ingjaldr! Velkominn Geiri skáld af Vestfjörðum! Drekk eg velkomanda-minni yðar allra!

*Þórunn*: Eg og vér konurnar drekkum og fagnaðar-minni yðar allra. Munið þér og launa vel ádrykkjuna, og segja oss mörg tíðindi og góð.

*Hámundr*: Frá mörgu er að segja úr vorri ferð, og skal skjótt yfir fara. Héldum vér fyrst vestr yfir Hérað, er sumir nefna Skagafjörð, og vestr yfir fjallskarðið; taka þar við dalir miklir og góðir; en lítilla manna-byggða urðum vér varir, fyrr en vér kómum í Vatnsdal.

*Helgi*: Hversu mátti Ingimundr að Hofi vinr vor?

*Þórunn:* Og kona hans, Þórdís jarlsdóttir?

*Hámundr:* Vel máttu þau, og veittu oss hinar beztu viðtökur. Er Ingimundr hið mesta stórmenni og spakmenni; hefir hann reist bæ mikinn og hof reisulegt, og tignar hann mjög Frey. Skulum vér færa yðr heillaóskir og vinmæli þeirra Vatnsdæla.

*Helgi:* Hvar gistuð þið næst, þar er ykkr þótti gott að vera?

*Hámundr:* Í Hvammi að Auðar djúpauðgu mágkonu þinnar.

*Þórunn:* Seg oss, mágr, allt sem gerst um systur vora og hennar lið.

*Hámundr:* Ellimóð gjörist hún nú, og er þó enn hin skörulegasta kona, enda öll framganga hennar og atferli sem drottningu samir. Þar er bær mikill og stórhýsi, en ekki hof eða hörgr, og heldr hún kristni sem bezt. Eru nú allar dætr Þorsteins sonar hennar mönnum gefnar, og flestir þeirra taldir afreksmenn og höfðingjar; fylgir sýn heill kyni Auðar.

*Þórunn:* Hvort er Ólafr feilan kvongaðr nú?

*Hámundr:* Eigi, og er honum þó ætluð konan.

*Þórunn:* Og hver er sú?

*Hámundr*: Álfdís hin bareyska.

*Þórunn*: Vel er til stofnað og mun hamingja fylgja. Eða er Ólafr eigi fríðr maðr?

*Hámundr*: Gjörvilegri mann hefi eg aldri séð.

*Helgi*: Hvort hafði Auðr vinaboð inni?

*Hámundr*: Vinaboð mikið að skozkum sið og hið ríkmannlegasta. Dvöldum vér þar þrjá daga. En að skilnaði fékk hún okkr Ingjaldi gjafar þær, er vér færðum yðr, enda gaf hún oss mörg heilræði og bað oss bera yðr hinar kærstu kveðjur. Eptir það reið hún með sveit sinni langt á leið með oss, þar til er vér kómum í dal nokkurn, er Svínadalr heitir; þar stóð steinn mikill og steig Auðr þar af baki, og þá mælti hún á þessa leið: „Illa hugnar mér staðr þessi, og má vera að óhapp nokkurt eða glapvíg gjörist hér í ætt vorri. Mun eg nú aptr snúa; skaltu bera kveðju mína Helga mági mínum, Þórunni systur minni, Þorbjörgu hólmasól, vinkonu minni, og öllu yðru liði, og far nú heill og þú Ingjaldr“. Hún minntist við okkr, og reið hún og sveinar hennar hart á hvarf.

*Helgi*: Það mun einmælt, að Auðr mág-

kona vor er fyrir flestöllum konum öðrum á danska tungu.

*Þórunn*: Kenna má og stórmennsku Auðar, að hún ein í heiðnu landi þorir að halda uppi kristnum dómi.

*Helgi:* Hvað segir þú oss af Geirmundi konungi eða Úlfi frænda hans og systur minni?

*Hámundr:* Heil eru þau öll, og fengum vér hjá þeim viðtökur hinar beztu. En landþröngt hefir nú Geirmundr, en mörg hefir hann þó stórbú og hundrað húskarla, þá er jafnan fylgja honum, og hefir enn konungs risnu í flestum háttum sínum. Úlfr skjálgi er og hinn mesti höfðingi; búa þeir frændr andspænis við fjörð breiðan, er þeir kenna við Gils herkonung skeiðarnef. Og margt stórmenni er þar, svo og um alla Vestfjörðu; enda er þar og hvervetna nær albyggt.

*Helgi:* Töluðu þeir frændr vorir eigi um, að þeim þætti fýsilegt að sinna boði voru og beiðni, að nokkurir þeirra kæmi norðr til vor í kynnisför?

*Hámundr:* Hér er nú sendimaðr þeirra Þórðar mágs þíns úr Alviðru og Snæbjarnar í Vatnsfirði bróður þíns og annarra höfðingja, og mun hann búinn til að skila erindum.

*Þórunn og fleiri:* Haf þökk, Hámundr!

*Helgi:* Gefið hljóð Geira skáldi!

(Geiri gengr fyrir Helga og lýtr honum).

*Geiri:* Sit heill í sæti og ítr að öldri, Helgi Eyvindarson, og þú með sæmd í sessi Þórunn húsfreyja og börn yðar öll! (Lýtr pallinum). Það er erindi mitt hingað fyrst, að bera þér og yðr öllum heillaóskir og kæra kveðju þeirra Vestfirðinga. Var eg á vorþingi þeirra, og báðu þeir Nesja-Knjúkr, Snæbjörn bróðir þinn, Þórðr mágr þinn og aðrir höfðingjar mig farar þessar; skyldi eg bera yðr mörg vináttu-orð og að auki gjafar þær, er eg þegar hefi af hendi selt; þá skyldi eg og skýra yðr frá högum og háttum vina yðvarra, svo og frá landsnytjum, búsæld og héraða-skipan þar um fjörðuna. Mun eg allt þetta í tómi gjöra og góðu næði, svo sem hverr yðar vill spyrja, en eg kann úr að leysa.

*Helgi:* Haf vora beztu þökk, Geiri, fyrir hingaðför þína um langa vega og eigi síðr fyrir erindi þitt. Muntu hjá oss dvelja hálfan mánuð eða lengr, og þurfum vér margra hluta að spyrja. Muntu og eigi launalaust svo miklu sæmdar-erindi ljúka.

*Þórunn:* Haf og beztu þökk mína, skáld, og ver velkominn í Eyjafjörð!

*Geiri:* Kvæði hefi eg orkt um yðr, Helgi, og vilda eg flytja mega.

*Helgi:* Hvorki em eg konungr né jarl, enda hefi eg nú lagt niðr hinar fornu virðingar, en fyrir því að dagr þessi er heilladagr vor, þá skal þér þökk kunna og gefa gott hljóð kvæði þínu.

*Geiri* (kveðr; hljóðfæri leikr undir bak við):

Hér skal stef stæra,
stilli brag færa,
háttu hljómskæra
hinum vegmæra.
Herjans hásyngi
hróðrar glymkynngi,
rík at rómþingi,
Ragnars afspringi!

Heilsar hregg-njörðum
Hnikars malgjörðum,
Sjöfn og seimjörðum
sveinn af Vestfjörðum.
Hefik Hjörs kundi
(hrósak vígþundi)
fylgt at fjarðsundi,
frægstum Hámundi.

Sit þú heill, sjóli,
sæll í týskjóli,
grettis glæbóli
gæddr á vegstóli,
rekkr inn ráðvandi,
rétt lög setjandi,
byggðar blómgandi
beztr á Íslandi!

Hrósak hrynslætti
hildings kynþætti,
óska' at slíkt ætti
jöfra fjöld mætti.
Menn hafa í minni,
með móðurætt þinni
réðstu' inn ráðsvinni
ríki' í Dýflinni.

Ungr á Írlandi
út frá glósandi
léztu beitt brandi,
búinn stálgandi.
Réðstu róg meyjar
ríki Græneyjar,
græðir geirþeyjar,
gæðir hafleygjar!

Frák at glym glæddu

gumnar hervæddu,
ríkri gjöf gæddu
gögl in svartklæddu.
Gekk at geirþingi,
glatt var dögglingi,
hátt við hlymringi
hvein í bæsingi.

Brann þér brámáni
bjart inn haukfráni,
örn inn gran-gráni
gall of valráni.
Buðu boð Snerri,
ben gjörðist verri,
laugst þá logn knerri,
hjá *Londonderri*.

Hjóstu þá, Helgi,
Herjans várbelgi
(Fráka varg velgi
við þótt ná svelgi).
Fram í stafn stefndi
stillir afremdi,
frák hann frægð efndi,
þá er föður hefndi.

Hrannir hereyja
hlýri valmeyja

(sá lét glamm geyja)
girti mergð fleyja.
Skein þá skozt veldi
Sköglar hræeldi.
Getka grið seldi,
sá er *Gjómal* feldi.

Drúptu dýrgotar,
drupu brár votar,
sárt er sáttbrotar
sviku *Rauð*, Skotar.
Gall þá Hárs hani,
hló þá Niðgrani;
féll sá fjörvani
er varð fimmtán bani.

Stóðstu ógn stranga
stundu fár-langa,
lézt svá lið ganga
loks á biftanga;
harðr ok hreggsleginn
hleyptir brimveginn,
glaðr ok friðfeginn;
fylgdi þrymregin.

Skein í byr blíðum
bragning herfríðum
land með haghlíðum

hátt at tveim síðum.
Sungu hljómhættir,
hrinu strengþættir,
léku landvættir
láðs við dyrgættir!

Friðar frægð byrjar,
fölnar iðn styrjar,
rosti randþyrjar,
reykr ok glóð hyrjar.
Fekk sér bólfestu
fylkir hagmestu,
fylgdu langflestu
forsagnir beztu.

Fór frækinn eldi
fjarðar námveldi,
gaf svá ok seldi
seggjum landspeldi:
*Þengli* þjóðhaga
þú bauðt átthaga,
þín sótti saga
*Svarfað* ok *Skaga*.

Frægðarmenn fleiri
(fyrðar enn heyri)
gyrta ramgeiri
gæddu landeyri.

*Örn* ok *Túnhana*,
aldri févana,
*Þursa þrábana*,
*Þorvald* ok *Hrana*.

(Til Hámundar:)
Stóð hinn styrkunni
stáls hjá gnýrunni,
heitinn hörgunni,
Helga knérunni;
hrósak Hjörs megi,
honum finnst eigi
maðr á marteigi
meiri á hervegi!

(Til Þórunnar:)
Þik skal þá mæra,
þú hin bráskæra,
fríða, frábæra
faldagná kæra.
Kanntu bezt binda,
brúðr in torfynda,
giptu gull-linda,
grandi brott hrinda!

Sék í hóp hýrum,
horskum, svipskýrum,
svanna' í sal dýrum
sex með tveim hlýrum.

Sem þá blys Braga
blikna' um sólhaga,
sýnist kynsaga
Snælands hér daga.

Sit nú heill, svanni!
sanngöfgum manni
sé ek með sanni
sól ertu í ranni!
Þér skal, faldfreyja,
fremd ok lof segja;
fylli fjörð eyja
frægð Ketils meyja.

Sit nú heill, Helgi!
Hrós ek fast telgi,
þótt við bjarg belgi
brim, ok jörð svelgi!
Þúsund ár inni
á hjá þjóð sinni
(mín þótt ljóð linni)
*þitt landnámsminni!*

Lifi svá lengi
láns í byrgengi
Helga hróðvengi,
hús ok afsprengi,
meðan lands mengi

meta kann drengi. —
Stöðvak lofstrengi;
slíta skal þá engi!

*Helgi* (stendr upp): Haf þakkir vorar, skáld; hið bezta er kvæðið, og mun kveðið verða þá er vor er minnst að þúsund árum liðnum! (Spennir gullhring af úlnliði sér). Þenna hring gaf mér Kjarval konungr móðurfaðir minn, og bað mig eigi lóga fyrr en eg hefða full metorð fengið. Hefi eg nú þau fengið, fyrir því að eg kýs nú heldr að vera það sem eg em, landnámsmaðr á Íslandi, en konungr á Írlandi. Þigg nú konungsnautinn, skáld, og ver konungr skálda; lát hringinn fylgja ætt þinni meðan skáldmenni hana prýða, en gangi hann þá til annarra skálda; legg eg heill landsins í hringinn; enda veit eg, að svo lengi sem óðsnilldin lifir, lifir og tungan, og með henni orðstírr og ágæti vorrar þjóðar.

*Geiri* (tekr við hringnum): Hrósa skal konungsgjöfinni og aldrigi lóga! (Snýr til sætis).

*Helgi:* Stöndum upp allir en taki borðin!
(Það er gjört, og menn standa upp).

*Þórunn*: Lifi Vestfirðingar, og lifi Geiri skáld!

(Allir taka undir. Leikendrnir raða sér um

þvert á sviðinu, Helgi, Þórunn, börn þeirra og mágar eptir aldri; yztir eru þeir *Örn*, *Teitr* og *Geiri*).

*Helgi*: Svo sem öllum er kunnugt, eru nú flest lönd byggð í firði þessum, og mun það mælt, að fá héruð sé betr mönnum skipuð. Gjöri eg og heyrin-kunnugt, að eg hefi gefið Auðuni Þórólfssyni Helgu dóttur mína og læt eg henni fylgja bústað í Saurbæ og lönd þau, er þar til liggja. (Þau *Auðun* og *Helga* ganga fram, og leggja þau *Helgi* og *Þórunn* hendr þeirra saman). Þá gef eg þeim fóstbræðrum, er hér eru staddir, hinar dætr vorar. Gef eg þér, Auðólfr, Þórhildi dóttur mína, og land að Bægisá. (Leggr þeirra hendr saman). Þá gef eg þér, Þorgeirr, Hlíf dóttur mína, og bústað að Fiskilæk. (Gjörir eins við þau). En þér, Gunnarr, Þóru dóttur mína, og bústað að Djúpadal. (Leggr og þeirra hendr saman). Það mun nú fágætt þykja og lengi verða að minnum haft, að einn og hinn sami faðir og hin sama móðir gefr fjórar dætr hinn sama dag; mun og eigi hitt miðr sjaldgæft þykja, að fern hjónaefni skipi einn bekk, og sé jafnefnileg þessi. Biðjum vér þess guð vorn, að hann blessi yðr öll og afspreng yðvarn með langri heill og hagsæld. Býð eg yðr öllum að halda vel tryggðir með tengdum,

og mun þá friðr og farsæld fylgja yðr og efla fjörð þenna um aldr og æfi. Hefi eg áðr fengið sonum mínum lönd, Ingjaldi að Þverá hinni efri, Hrólfi undir Gnúpufelli, en Hámundi mági vorum að Espihóli; en hinum fornu félögum vorum, Erni og Teiti, hefi eg enn eigi lönd gefið, og munu þeir með oss vera meðan þeir það heldr kjósa.

*Örn og Teitr*: Haf þökk, bóndi!

*Auðun og fóstbræðrnir*: Hafið þakkir, Helgi og Þórunn!

*Auðólfr*:

Sigldum vér lengi
svalar brautir.
Hefik aldri sét
höfn svo fagra!

*Þórhildr*:

Þér vil ek þreyttum
með þýðri hendi
bekki strá
ok bólstr reiða!

*Þorgeirr*:

Betra tel ek þik,
brúðr, at vinna,
en gullhauga
á Galdralandi!

*Hlíf*:

Þér vil ek, Þorgeirr,
þrávallt unna,
ok gæfuþráð
úr gulli tvinna!

*Gunnarr*:

Nú hefik Borgarhjört,
brúðr, unnið;
tel ek þá giptu
gulli betri!

*Þóra*:

En sem lyngormr
ljúfar ástir
skulu búr okkart
beggja verja!

*Hrólfr*:

Gróa mun grund
at Gnúpufelli;
halda munu hlut sínum
Hrólfs kynrunnar!

*Kona Hrólfs*:

Kenna mun ek dætrum
dyggð at rækja
ok sonum mínum
sanna hreysti!

*Ingjaldr*:

Þróast mun Þverá,

ok þykja frægast
óðals öndvegi
Eyjafjarðar!

*Kona Ingjaldar*:
Frami fróðleikr
ok fræði guða,
eiga mun þar skjól
meðan aldir renna!

*Hámundr*:
Hafin er Hálfsrekka
heill at nýju,
auðr ok óðul
at Espihóli!

*Ingunn*:
Þar munu lengi
með limi gróa
vorir kynkvistir
Krists í skjóli!

*Auðun*:
Vorar munu, Helga,
verða ættir
fyrstar ok fremstar
í firði þessum!

*Helga*:
Ok Auðuns kyn
Íslands bera

